# HAUKSBÓK

HIN YNGRI.

# BORGARALEG FRÆDI

FYRIR ÍSLENZKA BORGARA
Í KANADA OG BANDARÍKJUM.

ÚTGEFANDI:
ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.
WINNIPEG.
PRENTSMIÐJA LÖGBERGS.
1905.

# FORMÁLI.

Fyrir nokkurum tíma síðan byrjaði eg að safna ýmsum borgaralegum fróðleik, er eg vissi að Vestur-Íslendingum væri þægilegur og enda ómissandi til að skilja stjórnarskipulag landsins og viðskiftalíf þess. Eru alþýðubækur um þau efni mjög algengar og útbreiddar, en allar á ensku og ekki öðrum til gagns en þeim, sem ensku lesa og skilja til hlítar. En séu slíkar bækur innfæddum borgurum landsins ómissandi, fanst mér sjálfsagt, að löndum mínum, sem meira og minna eru landsháttum lítt kunnir, væri þarft verk með því unnið að þeim væri þessi fróðleikur veittur á eigin máli þeirra. Hefi eg því ráðist í að gefa út bækling þenna og vona að honum verði fagnað sem góðum gesti. Til þýðingarinnar hefir verið vandað eftir föngum af þeim, er þýtt hefir meginmál bæklingsins, séra F. J. Bergmann, enda hefir hún verið töluvert vandaverk, einkum þar sem um stjórnarskipulag í Kanada og stjórnarskrá Bandaríkjanna er að ræða. En hvorttveggja er öllum hugsandi mönnum svo miklisvert að skilja og lesa niður í kjölinn, að enginn nýtur borgari má án þess vera.

Töflur þær yfir vöxtu af peningum, sem prentaðar eru í bæklingnum, er óhætt að ábyrgjast að séu réttar, því þær hafa verið ljósmyndaðar eftir öðrum margreyndum. Þær ættu að geta orðið að miklu gagni, því fljótlegt er til þeirra að grípa og nærri

því dagsdaglega geta þær að góðu haldi komið í viðskiftalífinu.

Þá eru líka landslögin eitt af því, er hverjum borgara er nauðsynlegt að hafa dálitla þekking á. Hér eru nokkur algeng smáatriði í lögum tekin fram, sem hverjum manni er mikilsvert að vita.

Nái kver þetta vinsældum, langar mig til að halda safni þessu áfram.

Hauksbók er safn eitt kallað af gömlum handritum íslenzkum, er hefir ýmsan fornan fróðleik að geyma um all-ólík efni. Hefi eg kent þetta litla safn borgaralegra fræða við það fornfræga safn og kallað það Hauksbók hina yngri. Vona eg að nafnið hneyksli engan.

*Útgef.*

---

EFNISYFIRLIT:

---

# Stjórnarskipulag Kanada.

---

### *1. Formáli.*

Þeir, sem kunnugir eru sögu Kanada, vita, að af öllum fylkjum Breta í Norður-Ameríku voru Kanada-fylkin hin einu, er öðluðust þingbundna stjórn á þann hátt, að þeim væru gefnar sérstakar stjórnarskrár, er færðar væru í letur. Hin önnur fylki höfðu um þetta leyti það stjórnarfyrirkomulag, sem fyrst höfðu gefnar verið lauslegar bendingar um í konungsbréfum, en þar næst tekið ýmsum framförum fyrir einkaréttindi, sem veitt höfðu verið eða umkvörtunarefni, er tekin höfðu verið til greina, þegar bænarskrár voru sendar. Þegar árið 1854 nutu þau samt sem áður öll þingbundinnar stjórnar í fylsta skilningi þess orðatiltækis brezku grundvallarlaganna. Þegar því fylkjasambandið komst á — Kanada-veldi (Dominion of Canada)— árið 1876, með löggjöf allsherjarþingsins brezka, átti það eiginlega ekkert eftir að öðlast í sjálfstjórnaráttina eins og stjórnarskráin var úr garði gjör. Sambandinu hafði verið komið á til þeirrar eflingar, er öll eining, sem viturlega er til stofnað, ávalt hlýtur að hafa í för með sér, — eflingar til að bera byrðina hver með öðrum, auka efnalega auðlegð landsins, og færa þjóðernislega út kvíarnar. Samkvæmt ákvæðum sambandslaganna áttu þau einkaréttindi, er einstök fylki höfðu öðlast, óskert

að vera, og þó mörg væru upp gefin, var þó ávalt meira gefið í aðra hönd. Með þessari alveldislöggjöf var öllu því valdi, er fylkin höfðu öðlast, safnað saman samkvæmt vilja sjálfra þeirra á hendur einni öflugri yfirstjórn; skyldi hvert fylki lúta henni og þó halda tilveru sinni og sjálfstjórn eins eftir sem áður.

2. *Brezku stjórnarskipunarlögin fyrir Norður-Ameríku 1867.* Tilefnið til þeirra var það, að Kanada-fylkin, Nýja Skotland og Nýja Brúnsvík létu í ljós þann vilja sinn að mynda eitt alveldissamband undir krúnu hins sameinaða konungsveldis Bretlands hins mikla og Írlands með stjórnarskrá í meginatriðunum líka stjórnarskrá hins sameinaða konungsríkis.

Þau tóku fram, að slík sameining mundi verða velferð fylkjanna til eflingar og styðja framfarir hins brezka veldis.

Þau skipuðu fylkjasambandið stofnsett með valdsumboði þingsins, þau skipuðu fyrir um vald löggjafarþingsins í Kanada-veldi og kváðu á um eðli framkvæmdarvalds stjórnarinnar.

Þau gjörðu ráðstafanir fyrir væntanlegri inngöngu anarra landshluta brezkrar Norður-Ameríku inn í sambandið.

Málsgrein sú, er hér fer á eftir, sýnir ljóslega, hvað átt er við með valdsumboði þingsins, sem eitt var því um komið að veita ákvæðum laganna fullkomið gildi:

„Þetta er því ákveðið og yfirlýst af hágöfugri hátign drotningarinnar í samráði við lávarðana, andlega og veraldlega, og með samþykki þeirra og neðri þingdeildar ,saman kominna á þessu núverandi þingi, og með valdsumboði þeirra allra."

Hér eru taldir allir aðilar brezka þingsins — drotningin (konungsvaldið), lávarðarnir og þing-

menn neðri deildar — æðsta löggjafarvald brezka veldisins. Þetta löggjafarform er nauðsynlegt til fullgildis allra laga og allra ákvæða þeirrar stjórnar.

Yfirlit það, sem hér hefir gefið verið, á einungis við þau ákvæði löggjafar þessarar, er snerta:

1. Eðli framkvæmdarvalds Kanada-stjórnar.
2. Skipun löggjafarvaldsins.

Eins og þegar hefir verið tekið fram,eru meginatriði ákvæða löggjafar þessarar í báðum þessum atriðum hin sömu og fram eru tekin í fyrri grundvallarlögum fylkjanna, er sambandið hófst. Að meginefni voru þau lík orðin grundvallarlögum hins sameinaða konungsveldis. Í skipun hins mikla þings Kanada-veldis kemur það enn betur í ljós, að hún í aðal-atriðunum er sú sama og skipun brezka þingsins.

*Framkvæmdarvaldið.*

1. *Framkvæmdarvaldið í* Kanada og yfir er með hátíðlegri yfirlýsing látið hvíla í höndum konungsins eins og áður.

2. *Yfirstjórn* alls herliðsins, bæði til lands og sjávar er einnig með yfirlýsing látið hvíla í höndum konungsvaldsins eins og að undanförnu.

3. *Yfir-landsstjóri,* sem settur er af konungi og ráðgjöfum hans, er fulltrúi hans hátignar í Kanada og hefir með höndum völd, myndugleika og störf hinna fyrri landsstjóra, er hann gegnir og framkvæmir með ráði og samþykki leyndarráðs konungs fyrir Kanada, eða þeirra manna, er þar eiga sæti, eða upp á eindæmi, eftir því sem ástæður heimta; samt sem áður getur Kanada þing numið úr gildi og breytt, nema þegar slíkar breytingar mundu brjóta bág við einhverja löggjöf alríkisþingsins.

Konungsvaldið, sem yfir-landsstjórinn er fulltrúi fyrir, fylgir sömu grundvallarlaga stefnu í Kanada eins og í sameinaða konungsveldinu.

4. *Löggjöfin* tekur enn fremur fram: „Ráðaneyti skal hjálpa og ráðleggja Kanada-stjórn og skal það nefnast Leyndarráð konungs fyrir Kanada; skulu þeir, er það skipa, smám saman kvaddir og kosnir af yfir-landsstjóra og eiðsvarnir sem leyndarráðsherrar, en smám saman getur yfir-landsstjórinn einnig rutt þeim þaðan aftur.

5. *Orðatiltækið „Yfir-landsstjórinn og ráðaneytið“* er látið þýða: Yfir-landsstjórinn framkvæmir eitthvað í samráði við leyndarráð konungs fyrir Kanada.

5. *Skyldur Yfir-landsstjóra.* Sem fulltrúi konungsvaldsins verður hann að hlýða ákvæðum erindisbréfs síns og ráðum leyndarráðsins fyrir Kanada. Skyldur þær, sem á honum hvíla, eru meðal annars þessar:

(1) Skipun fylkisstjóra í hverju fylki,og ef nægilegar ástæður eru, brottrekstur þeirra áður embættistími þeirra er runninn út.

(2) Skipun dómara í öll sæti dómgæzlunnar í Kanada-veldi og embættissvipting þegar þingið vill svo vera láta.

(3) Hann kveður vel hæfa menn til sætis í efri málstofu þingsins.

(4) Hann skipar einn úr efri málstofu til forseta þeirrar þingdeildar og getur vikið honum frá.

(5) Sem forkólfur framkvæmdarvalds stjórnarinnar kallar hann þing saman, lengir þingsetu, og segir þingi slitið.

(6) Í nafni konungsvaldsins samþykkir hann lög, er gengið hafa gegn um báðar þingdeildir eða lætur þau bíða samþyktar konungsvaldsins og ráðgjafa þess.

*(7)* Hann verður að senda eftirrit allra laga, er hann hefir samþykt, einhverjum af ríkisriturum konungs, svo að slík lög verði tekin til íhugunar af konungi og ráðgjöfum hans. Ef þau eru álitin að ná út yfir löggjafartakmörk Kanada-þings, getur konungur og ráðaneyti hans neitað þeim staðfestingar og eru þau úr gildi numin frá þeim degi að Yfir-landsstjóri lýsir neitun hans hátignar yfir fyrir þingdeildum Kanada-þings.

*(8)* Hann getur synjað löggjöf fylkisþinganna staðfestingar einu ári eftir að hún hefir samþykt verið á fylkisþingi.

*(9)* Hann getur linað refsingu dómstólanna.

7. *„Ráðgjafa-ábyrgð“.* — Þessi tvö orð láta í ljós megin hugmynd stjórnarskipulagsins samkvæmt brezkum grundvallarlögum, sem einnig gilda í Kanada. Það er sú hugmynd, sem fram hefir komið í öllum stjórnarframkvæmdum í brezkri Norður-Ameríku síðan 1848. Hún kemur líka í ljós í orðatiltækinu: „Konungurinn fær ekkert rangt gjört,“ sem þýðir, að konungsvaldið, hvort heldur í löndum konungs sjálfs eða konungsfulltrúa, má ekki verða kært fyrir yfirsjón í nokkurri stjórnarathöfn. Frá aldaöðli hefir einvaldurinn haft ráðaneyti sér við hlið, og hafa þeir, er það skipa, haft ýms ríkisstörf á hendi og gefið ráð, þegar þurft hefir. Saga Englands kann frá því að segja samt sem áður, að misklíð hefir upp komið og barátta risið upp út af því, hvort meira gilda skyldi, konungsvaldið og einkaréttindi þess eða réttar- og frelsiskröfur þjóðarinnar, sem þingið hefir verið fulltrúi fyrir. Eftir því sem tímar hafa liðið hefir samt sem áður greiðst úr þeirri flækju og ákveðin meðferð á málum þjóðarinnar unnið hefðar-helgi, er lætur öll framkvæmdarfæri stjórnarinnar starfa í samræmi. Þessi ákveðna málamiðlunar-aðferð lýt-

ur að kosning og kvaðning til ríkisráðs konungs fyrir Kanada.

8. *Þessi óskráðu* lög, sem unnið hafa hefðarhelgi, að því er kosning og kvaðning manna til að skipa leyndarráðið snertir, eru látin ráða í Kanada á sama hátt og á Englandi. Í fyrsta lagi eru þeir einir kjörgengir til kvaðningar, er í það skifti skipa efri þingdeild eða neðri. Í öðru lagi eru þeir kosnir úr hópi þeirra þingmanna, er fylgja þeirri stjórnmálastefnu, sem meiri hluti neðri þingdeildar aðhyllist. Aftur liggur það í hlutarins eðli, að yfirlandsstjórinn kýs eigi hvern einstakan ráðgjafa sinn, en kveður sér til fylgdar þann þingmann í annarri hvorri þingdeild, vanalega hinni neðri, er viðurkendur er leiðtogi meirahluta þeirrar þingdeildar. Honum felur yfir-landsstjori útvalning annarra þingmanna, er honum vilja hjálpa til að bera ábyrgðina fyrir ráð þau, er fulltrúa konungsvaldsins eru ráðin. Þegar hann hefir valið sér nógu marga meðráðendur og öðlast samþykki þeirra, leggur hann nöfn þeirra allra með sínu eigin fram fyrir yfir-landsstjóra; eru þeir þá allir kallaðir fram fyrir hann og látnir vinna eið sem þeir,er skipa eiga ríkisráðið. Þeir vinna eið, að halda leyndum umræðum og gjörðum ríkisráðsins og má enginn nokkuru af þeim efnum upp ljósta án leyfis konungs eða fulltrúa hans .

Þegar þeir hafa unnið eið þenna, eru þeir skipaðir hver um sig til að ráða yfir og bera ábyrgð á einhverri deild ríkisstjórnarinnar. Þeir, er sæti eiga í neðri þingdeild, verða nú að koma fram fyrir kjósendur sína eins fljótt og þeim er unt, til þess í ljós komi dómur almenningsálitsins um skipun ráðherranna í embætti og afstöðu þeirra alla. Á meðan þessir ráðgjafar hins hágöfuga yfir-landsstjóra halda hylli neðri þingdeildar, gegna þeir embættum sínum

og bera sameiginlega ábyrgð fyrir sérhverri stjórnarathöfn framkvæmdarvaldsins, sem konungur eða fulltrúi hans hefir með höndum. En missi þeir með einhverju móti þessa hylli,verða þeir að segja stjórnarstöðu sinni upp og varpa af sér ábyrgðinni sem ráðgjafar krúnunnar.

Þegar þetta kemur fyrir, er yfir-landsstjóra engin önnur leið fær en nýtt ráðgjafaval og skipun, eins og áður er frá skýrt, svo að hann hafi um sig ráðgjafa, grundvallarlögum samkvæmt. Nú verður hann að kveðja þann þingmann fyrst til ráðgjafa, er náð hefir þeirri hylli þingsins og þá um leið þjóðarinnar, er fyrirrennari hans áður naut.

9. *Ráðaneyti, ráðgjafanefnd, stjórnarráð eða stjórn* eru orðatiltæki, sem öll eru látin þýða hið sama og ríkisráð og eru ráðgjafar æðsta embættismanns Kanada-veldis með þeim táknaðir. Í orðinu *ráðaneyti (cabinet)* er oft látin felast hugmyndin um, að umræðum og fyrirætlunum sé þar leyndum haldið. Hin önnur heiti eru meira látin að verklegum framkvæmdum lúta. Sá, sem fyrstur er kvaddur af krúnunni,er auðkendur umfram embættisbræður sína í ráðaneytinu með því að vera nefndur forsætisráðherra, ráðaneytisforseti, eða stjórnarleiðtogi. Embættisbræður hans eru kunnir sem þeir, er ráðaneytið skipa eða stjórnina, ráðherrar ríkisins eða krúnunnar; en hver út af fyrir sig eru þeir kunnir sem fjármálaráðherra, dómsmálaráðherra, landbúnaðarráðherra, eftir því hverri deild stjórnarinnar þeir veita forstöðu. Mjög oft er um þá talað sem hafandi skjalaveski (*Portfolio*) fjármálanna, dómsmálanna eða landbúnaðarins, eftir því sem ástatt er. Stundum er talað um ráðherra án skjalaveskis, eða stjórnardeildarlausan ráðherra,sem komið getur fyrir þegar forsætisráðherrann velur einn ráðgjafa eða fleiri um fram þá tölu, er til þarf

til að fylla ríkisembættin. Tala þeirra, er ráðaneyti skipa, getur því breytingum tekið.

10. *Stjórnardeildir* eða ríkisembætti eru nú sem stendur eins og hér skal greina, og benda nöfnin til ákveðins verkahrings í aðal-stjórninni.

(1) *Ríkisráðsembættið* er í höndum þess manns, er nefnist forsætisráðherra og skipar forsæti á öllum fundum ríkisráðsins. Á þeim fundum eru opinber mál undir það búin að leggjast fyrir þing. Vilji þingsins í opinberum landsmálum kemur í ljós í löggjöf þess og er komið í framkvæmd með ríkisráðsfyrirskipan (*Order-in-Council*), sem atkvæði eru greidd um á ríkisráðsfundi og látin er gangi til hinna annarra stjórnardeilda til frekari leiðbeiningar og samþykkis. Skrifstofa þessi hefir bréfaskifti við alríkis ritarann fyrir nýlendurnar (*Imperial Secretary of State for the Colonies*), við yfir-umboðsmann Kanada á Englandi og við sendiherra hans hátignar í Bandaríkjunum. Öll skjöl ríkisins eru geymd í þessari stjórnardeild.

(2) *Stjórnardeild ríkisritarans í Kanada* hefir öll bréfaviðskifti á hendi milli Kanadastjórnar og fylkjastjórnanna. Þangað á að beina öllum bænarskrám, einkum þeim, er stílaðar eru til yfir-landsstjórans og ráðaneytisins (*Governor - General-in-Council*). Á þeirri skrifstofu eru öll umboðsbréf, einkaleyfi, skipanir og skjöl, sem hinu mikla innsigli Kanada hefir verið þrýst á, nákvæmlega færð til bókar.

Deild þessi hefir yfirumsjón með undirdeild þeirri, er prentun og pappírsforða ríkisins hefir með höndum.

(3) *Dómsmáladeildin*, og er dómsmálaráðherrann forseti hennar; hefir hann yfirumsjón með dómsmálarekstri öllum í Kanada-veldi og dýflissum og betrunarhúsum. Hann er ráðgjafi yfir-landsstjóra í

öllu því, er að lögum lýtur, ráðaneytisins og stjórnardeildanna og sér um málarekstur allan og málsvörn af hálfu Kanada-veldis. Það er einnig skylda hans að fylgjast með í löggjöf fylkjanna og sjá um, að hún fari ekki út fyrir rétt takmörk.

(4) *Fjármáladeildin* sér um öll efni opinberra reikninga og sýnir tekjur og útgjöld Kanada-veldis. Hún sér um, að lögum um gjaldeyri, banka og lífsábyrgð sé hlýtt. Fjármálaráðherrann verður að leggja fram árlega áætlun um fjármál Kanada. Þar sem hann er forkólfur tollmáladeildar stjórnarinnar, verður hann að skipa sæti í neðri þingdeild.

(5) *Deild opinberra mannvirkja* sér um allar opinberar umbætur á höfnum, ám, skipakvíum o. s. frv. og húsagjörð alla til stjórnarafnota og þarfa.

(6) *Deild járnbrauta og skipaskurða* sér um stjórnarbrautir, hefir umsjón með lagning járnbrauta, er stjórnarstyrkur er veittur, greftri skipaskurða og viðhaldi þeirra.

(7) *Akuryrkjudeildin* hefir það ætlunarverk að hlynna að akuryrkjumálum; hún hefir umsjón með fyrirmyndarbúum, sér um innflutning penings til kynbóta, innflutning fólks, ráðstafar heilbrigðismálum og sóttvörnum, sér um manntal og skýrslur, forlagsrétt, verzlunarmerki og uppfundninga-einkaleyfi.

(8) *Verzlunardeildin* hefir yfirumsjón með ásigkomulagi og háttum mikilsverðra verzlunarmála, einkum að því, er verzlunarmök við aðrar þjóðir snertir og farvegi þá, er viðskiftalífið velur sér, léttir undir með þessu og gjörir umbætur, hve nær sem því má við koma. Þangað til nú fyrir skemstu voru „tollar“ og „innanríkis-tekjur“ undirdeild við verzlunardeildina.

(9) *Tolldeildin* hefir sérstaka umsjón með öllum efnum, er lúta að lagfæring og innheimtu tolla þeirra, er lagðir eru á innfluttar vörur.

(10) *Innanríkistekjudeildin* hefir það ætlunarverk að sjá um, að lögum sé hlýtt um tolla á innfluttum varningi, mál, vigt, gas og raflýsingarmæla, aðgreining og mál á timbri, eftirlit á matvöru, skinnum, lyfjum og steinolíu.

(11) *Hermála og landvarnardeildin* hefir sérstaka umsjón yfir öllum efnum, er snerta fullkomnun heraflans í Kanada, hergagnabúr, kenslustofnanir og hermannaskólann. Undir hermálaráðgjafanum stendur yfirhershöfðingi, er ræður yfir landhernum og er hann kosinn úr hinu reglulega herliði Englands.

(12) *Sjóliðs og fiskiveiðadeildin* sér um að lögum sé hlýtt um fiskiveiðar, vita, sjómerki, hafnir, próf formanna, stýrimanna og vélastjóra og eftirlit skipa.

(13) *Innanríkismáladeildin* hefir umsjón með löndum krúnunnar í Manitoba, British Columbia og Norð-vestur héruðunum. Hún hefir tvær undirdeildir: *Yfirumsjón Indíánamála og landmælingar.*

(14) *Póstmáladeildin* rekur öll póstmál Kanadaveldis bæði innan lands og utan.

*Ráðherra-fulltrúar.* Þar sem ráðherrum, er stýra hverri stjórnardeild, má víkja úr sæti eða frá einni stjórnardeild til annarrar, er það nauðsynlegt að störf stjórnardeildanna raskist eins lítið í einstökum atriðum og unt er, þrátt fyrir breytingar þessar. Af þessari ástæðu er ráðherra-fulltrúi næstur ríkisráðherranum yfir hverri stjórnardeild. Heldur hann stöðu sinni áfram þrátt fyrir allar ráðherra-breytingar.

Deild yfir-endurskoðunar landsreikninganna er einnig óháð öllum stjórnar breytingum og liggur það í eðli ætlunarverks hennar. Sú deild er fjarska mikilsverð, er til þess kemur að rekja hin mörgu

smáatriði útgjalda og inntekta í ýmsum stjórnardeildum.

11. *Opinber skírteini* um ábyrgð ríkisráðsins fyrir stjórnarathafnir krúnunnar í Kanada birtast á öllum skilríkjum og ríkisskjölum, sem út eu gefin með þess myndugleika. Á öll slík skjöl verður að þrýsta hinu mikla innsigli Kanada-veldis, að undirrituðu nafni yfir-landsstjórans, en auk þess verða þau að hafa undirskrift ráðherra krúnunnar, sem innanríkisdeildinni veitir forstöðu, því öll slík skjöl eru gefin út af henni.

12. *Meginreglur ráðaneytisins.* Svo má kalla frumreglur allar fyrir athöfnum ráðaneytisins og hafa þær til orðið vegna heimullegra félagsstarfa ráðgjafanna og sameiginlegrar ábyrgðar. Eins og það eru óskráðar „siðvenjur", en þó rækilega til greina teknar, sem orðið hafa orsök til myndunar ráðaneytisins, eru meginreglur þær, er meðlimir ráðaneytisins verða að hlíta, öllum ljósar, þó hvergi séu þær skráðar í lögum; eru þær þeim mun ákveðnari í framkvæmdum, sem þær eru eigi bundnar neinum bókstaf. Þar liggur við heiður og mannorð og eru þær því eins konar sjálfsögð sannindi, nauðsynleg til einingar í stjórnarstefnu og athöfn, sem er skilyrði fyrir fullveldi ráðaneytisins á hinu sérstaka starfsvæði þess sem stjórnarskrármiðils. Ábyrgð þess er því tvenns konar, — *gagnvart krúnunni*, að einkaréttindi hennar séu varðveitt; *gagnvart þinginu*, að ráð þau, er krúnunni eru lögð, séu í samræmi við réttindi og siðvenjur þingsins. Þegar hver einstakur meðlimur ráðaneytisins hefir orðið við tilmælum forsætisráðherrans, að bera ábyrgðina með honum, liggur heiður hans við, að hann ljái forsætisráðherranum fylgi sitt sem forkólfi stjórnarinnar. Það er líka föst venja, að yfir-landsstjóri sé eigi viðstaddur á fundum ráðaneytisins, nema mikil-

væg tilefni séu fyrir hendi. Það leiðir því af þessu, sem hér er sagt: 1) að forsætisráðherrann er opinber milliliður milli krúnunnar og ráðaneytisins og að hann ber ábyrgð á því fyrir krúnunni að stjórnardeildum ríkisins sé dyggileg forstaða veitt; 2) að hver ráðgjafi beri ábyrgð fyrir þeirri stjórnardeild, er honum hefir tengin verið; 3) en um leið bera ráðgjafarnir allir sameiginlega ábyrgð fyrir sérhverja stjórnarathöfn ráðaneytisins, hvort sem hún er í sambandi við einhverja sérstaka stjórnardeild eða sameiginlega stjórnarstefnu; 4) Ráðgjafanefndin verður að vera sammála í öllum efnum, er snerta stjórnarstefnu og framkvæmd; 5) hætti einhver meðlimur ráðaneytisins að vera samhuga stjórnarstefnu forsætisráðherrans, hlýtur hann við drengskap sinn að víkja úr sæti sínu í ráðaneytinu; 6) sýni einhver ráðgjafi sig óhæfan eða gjöri sig sekan um ótrúmensku í deild sinni, skal honum vikið úr ráðaneyti; 7) fráviking eða úrsögn ráðgjafa, tekur alla ábyrgð af herðum embættisbræðra hans fyrir gjörðir hans; 8) þar sem forsætisráðherrann frá fyrstu ber ábyrgð á myndun ráðaneytisins, er uppleysing ráðaneytisins eðlileg afleiðing þess að hann segir af sér eða er vikið frá af einhverjum ástæðum.

13. *Framkvæmdarvald Kanadastjórnar* er því í höndum krúnunnar, en í samráði við ráðaneyti eða leyndarráð, sem ber ábyrgð, og er í raun og veru eins konar nefnd hinna tveggja þingdeilda.

## *Löggjafarvaldið.*

14. *Í Kanada skal eitt þing vera* og myndast það af konungi, efri deild — sem kölluð er öldungaráð og neðri deild og er yfirlýsing um það í brezku löggjöfinni fyrir Norður-Ameríku, er Kanada-veldi var myndað; sjá menn þá, að þrjú sömu framkvæmdaröflin liggja til grundvallar fyrir löggjöfinni í landinu eins og fyrir stjórnarathöfninni.

*Hverir sæti eiga í öldungaráðinu.*

15. (1) *Tala.*—Löggjöfin, sem ákveður fulltrúatölu þessarar deildar, skifti Kanada í þrjá hluti, (*a*) Ontario-fylki, (*b*) Quebec-fylki og (*c*) Strandafylkin, Nýja Skotland og Nýja Brúnsvík. Skyldi hver landshluti hafa tuttugu og fjóra fulltrúa, eða tólf vera fyrir hvert fylki í hinum síðasta. Strandafylkin skyldu þó að eins hafa tuttugu og fjóra fulltrúa, og ekki fleiri eftir að Prince Edward Island hefði verið tekið inn í sambandið, og skyldi þá fulltrúatalan frá Nýja Skotlandi og Nýju Brúnsvík hlutfallslega lækka. Þetta kom fram 1. júlí 1873, þegar fjórir öldungar voru útnefndir fyrir Prince Edward Island, og var þá fulltrúatalan frá Nýja Skotlandi og Nýju Brúnsvík lækkuð ofan í tíu frá hvoru. Löggjöf frá árinu 1867 gjörir ráð fyrir að fleiri fylki verði tekin inn í sambandið, og voru Manitoba veitt fjögur öldungasæti, Norð-vestur héruðunum tvö og Brezku Kolumbia þrjú. Ráð var líka fyrir því gjört, að Nýfundnaland fengi fjögur öldungasæti þegar það kæmi inn í sambandið.

Áttu þá fylkin öll 81 fulltrúasæti í öldungadeildinni.

(2) *Kjörgengi og heimilisfang.*—(*a*) Öldungur skal vera þrjátíu ára fullra að aldri. (*b*) Hann á að vera brezkur borgari innfæddur eða hafa þegið þegnréttindi. (*c*) Hann verður að eiga í löndum og lausum aurum $4,000 um fram skuldir. (*d*) Hann skal heimilisfang hafa í fylki því, er hann er fulltrúi fyrir. (*e*) Eigi hann heima í Quebec-fylki, verða eignir hans að vera í hans eigin kjördæmi og þar skal hann hafa heimilisfang.

(3) Menn, sem kjörgengi hafa, eru kvaddir til öldungadeildarinnar af landsstjóra í nafni konungs og með skjali, er ber hið mikla innsigli Kanada.

(4) Öldungum er skipað í sæti til lífstíðar með þeim skilyrðum, er lög ákveða.

(5) *Embættismissir.* — Öldungur verður af með sæti sitt, (a) ef hann skipar það ekki tvö þing í röð, (b) ef hann vinnur öðru veldi þegnskyldueið, (c) ef hann verður gjaldþrota eða sannaður um glæp eða landráð, (d) ef hann hættir að hafa kjörgengi að því er eignir og heimilisfang snertir.

(6) *Forseti.*— Yfir-landsstjóri kveður einn af öldungunum til að vera forseta, og getur vikið honum frá eftir vild sinni.

(7) *Lögmætur fjöldi.*— Fimtán öldungar, að forseta meðtöldum, þurfa viðstaddir að vera til þess lögmætur fundur í öldungadeildinni sé haldinn og ályktanir gjörðar.

(8) *Atkvæðagreiðsla.* — Mál skulu útkljáð með meira hluta atkvæða og skal forseti í öllum málum atkvæði hafa, en þegar jafn-mörg atkvæði falla, skulu úrslitin álitin neikvæð. Orðatiltækin *ánægðir* og *ekki ánægðir* eru viðhöfð í stað *já* og *nei*, þegar atkvæðagreiðsla fer fram í öldungadeildinni.

*Öldung* má ekki kjósa til neðri deildar, né heldur má hann eiga þar sæti né greiða atkvæði.

*Hverir sæti eiga í neðri deild.*

16. (1) Yfir-landsstjóri skal við og við í nafni konungs, með skjali staðfestu með hinu mikla innsigli Kanada, kveða til þings og kalla saman neðri deild.

(2) *Tala.*— Í löggjöfinni frá 1867 var ráðstöfun gjörð til að koma í veg fyrir of mikla fjölgun sæta í neðri þingdeild fyrir vaxandi fólksfjölda. Í þeim tilgangi var fulltrúa-talan miðuð við Quebec-fylki, með þessum ákvæðum: „(*a*) Quebec-fylki skal hafa ákveðna fulltrúatölu er nemi sextíu og fimm fulltrúum. (*b*) Hvert hinna annarra fylkja skal

hafa fulltrúatölu, er standi í sama hlutfalli við fólksfjölda samkvæmt síðasta manntali eins og talan sextíu og fimm stendur í við fólksfjölda Quebec-fylkis (eftir manntali). (*c*) Þegar ákveða skal tölu fulltrúa frá einhverju fylki, skal broti slept, sem ekki er meira en helmingur þeirrar tölu, er gefur fylkinu rétt til að senda einn fulltrúa, en brot, sem meira er en helmingur þeirrar tölu, skal álitið vera jafngilt þeirri tölu heilli.—(*d*) Þegar lagfæring er gjörð, skal ekki tala fulltrúa frá neinu fylki lækkuð, nema hlutfallið, sem fólksfjöldi fylkisins stóð í til alls fólksfjöldans í Kanada, þegar síðasta lagfæring fulltrúatölunnar fyrir fylkið var gjörð næst áður, hafi augsýnilega samkvæmt síðasta manntali lækkað um einn tuttugasta hluta eða meir. (*e*) Lagfæring þess skal ekki framkvæmd fyrr en setutíð yfirstandanda þings er útrunnin." (*f*) Þing Kanada hefir vald til að auka tölu fulltrúa í neðri málstofu, en einungis með því móti að varðveita það hlutfall, sem bent er á hér að ofan.

Fyrsta þingið samkvæmt þessari löggjöf kom saman 1867 og hafði 81 fulltrúa. Manntal hefir tekið verið 1871, 1881, 1891 og 1901. Samkvæmt manntali frá 1881 voru 215 fulltrúar í neðri deild. Samkvæmt manntali frá 1891 var tala þeirra aftur lækkuð, því þó fólksfjöldi sambandsfylkjanna hefði aukist, hafði fólksflutningur svo mikill átt sér stað milli fylkjanna, að lagfæring á fulltrúa tölu neðri deildar var óhjákvæmileg samkvæmt grundvallarlögum. Varð fulltrúa-talan þá 213 eða 65 frá Quebec-, 92 frá Ontario, 20 frá Nýja Skotlandi, 14 frá Nýju Brúnsvík, 7 frá Manitoba, 6 frá Brezku Kolumbía, 5 frá Prince Edward Island, 4 frá Norð-vestur héruðunum. Samkvæmt manntali 1901 varð fulltrúatalan 214 eða 65 frá Quebec, 86 frá Ontario, 18 frá

Nýja Skotlandi, 13 frá NýjuBrúnsvík, 10 frá Manitoba, 7 frá Brezku Kolumbia, 4 frá Prince Edward Island, 10 frá Norð-vestur hér. og 1 frá Yukon.

(3) *Kjörgengi.*— Einungis brezkir þegnar hafa kjörgengi og sæti í neðri þingdeild. Ekkert eignarskilyrði hefir verið heimtað síðan 1874. Enginn, er samið hefir við stjórnina um ákveðið starf eða hefir nokkurt embætti eða sýslu á hendi frá krúnunni, getur orðið fulltrúi neðri deildar.

(5) *Forseti* og *vara-forseti.*— Forseti neðri deildar er kosinn um leið og hún kemur saman eftir almennar kosningar. Það er skylda hans að skipa forsæti á öllum fundum deildarinnar. Vara-forseti er líka kosinn, sem gjörist forseti deildarinnar, þegar hún starfar eins og allsherjar-nefnd (*Committee of the Whole House.* Í fjarveru forseta gegnir hann líka störfum hans, og hvílir hann, þegar deildin situr mjög lengi á fundum.

(5) *Lögmætur fjöldi.*— Tuttugu fulltrúar, að forseta meðtöldum, þurfa nærstaddir að vera, svo deildarfundur sé haldinn og störf hans lögmæt.

(6) *Atkvæðagreiðsla.*— Mál eru útkljáð í neðri deild með meira hluta atkvæða, að forseta frátöldum; en þegar atkvæði eru jafn-mörg með og mót, skal forseti greiða atkvæði, annars ekki.

(7) *Kjörtíð* neðri deildar eftir almennar kosningar skal vera *fimm ár,* og ekki lengri, frá þeim degi að skjöl eru fram lögð fyrir kosning hennar; en yfirlandsstjóri hefir vald til að leysa hana upp fyrr.

(8) *Fjárlög.*— Það er áskilinn einkaréttur neðri deildar „að lög um *veiting* einhvers hluta opinberra tekja eða um álögur skatta skuli fyrst borin upp í neðri deild.“

(9) *Það skal ekki lögmætt vera fyrir neðri deild* að samþykkja ályktanir, ávörp eða lagafrumvörp til

veitingar nokkurs hluta opinberra tekja eða til að ákveða skatta og skyldur í einhverju *augnamiði*, sem yfir-landstjóri hefir ekki fyrst ráðið til í *boðskap sínum til deildarinnar*, meðan það þingsetu tímabil stendur yfir, sem slík mál hafa komið fram á.

—Þau tvö ákvæði, sem hafa inni að halda kjarnann í þeim fulltrúa og ábyrgðarhugmyndum, er þingið hvílir á, eru þessi: (1) *Hið eina umboðsvald, sem lagt getur á skatta og skyldur, er þingdeild alþýðu (the people's House).* (2) *Enginn hefir rétt til að koma fram með svo mikið sem tillögu um hvernig verja skuli innheimtum sköttum og skyldum, nema valdsumboð krúnunnar, í samráði við ráðaneyti með ábyrgð.*

*Báðar þingdeildir.*

17. *(1) Árleg þingsetutíð.* — Það verður að minsta kosti að vera ein þingsetutíð ár hvert fyrir þingið í Kanada, svo að tólf mánuðir líði ekki milli síðasta þingfundar eins þingtímabils og fyrsta fundar hins næsta.

(2) *Einkaréttindi, undanþágur og* völd hinna tveggja þingdeilda eru ákveðin af þingi Kanada, en ekki getur nein löggjöf þingsins veitt einkaréttindi, undanþágur eða völd umfram þau, er neðri deild þingsins á Bretlandi hinu mikla og Írlandi hefir með höndum.

(3) *Lögjafarvald.*—Í þessu efni eru völd beggja deildanna jöfn. Það stendur á sama í hverri deild tillögum er hreyft, nema fjárlögum, eins og þegar hefir sagt verið. Nauðsynlegt er, að sú löggjöf ekki síður en önnur nái samþykki beggja deilda áður en hún fær samþykki yfir-landsstjóra. Neikvæð atkvæðagreiðsla annarrar deildar í einhverju máli kemur í veg fyrir löggjöf. Sú regla hefir komist á í framkvæmd, þótt engin ákvæði séu til fyrir, að bæn-

arskrár um hjónaskilnað séu fyrst teknar til umræðu í öldungadeildinni.

(4) *Laun* fulltrúa beggja þingdeilda fyrir þingsetutímann er $1,000, ef hann er 30 dagar, en$10 á dag, ef þingtími er styttri en 30 dagar og ferðakostnaður 10 cents á hverja mílu til þings og frá.

---

## Þegnar og útlendingar.

1. Í Kanada er hver sá þegn, sem heima á í landinu, nýtur verndar brezku krúnunnar og er þeim, er að ríkjum situr á Bretlandi hinu mikla, skyldugur um hollustu og fulltrúa konungstignarinnar í Kanada. Brezkir þegnar geta menn orðið við fæðingu, gifting og veiting þegnréttinda. Þeir geta annaðhvort att heima í hinu brezka veldi eða erlendis. Þeir, sem heima eiga í öðrum löndum, geta verið:

Ráðgjafar eða erindrekar stjórnarinnar: eða rekið kaupsýslu og verzlun, annað hvort sem verzlunarfulltrúar eða kaupmenn; eða það geta verið menn, sem einungis eru á ferð í öðrum löndum og hafa þar heimilisfang að eins til bráðabyrgða.

2. Útlendingur er þegn annars lands, sem hvorki biður um vernd Bretlands hins mikla, né er um nokkura hollustu skyldur þeim, er ríkjum ræður. Þeir geta verið:

Ráðgjafar, embættismenn, erindrekar o. s. frv. annarra landa, geta átt heima í Kanada og verið á einhvern hátt fulltrúar lands sins. eða þeir geta átt hér heima einungis vegna kaupsýslu sinnar o.s.frv. og verið erlendu veldi skuldugir um hollustu.

3. *Þegnar að fæðingu.*—Allir, sem fæddir eru í brezka veldinu, nema börn útlendinga, eru brezkir þegnar. Börn, sem eiga brezka þegna að foreldrum, eru þegnar að fæðingu, þótt þau séu fædd í öðrum löndum.

4. *Þegnar að giftingu.*—Útlend kona, er giftist brezkum þegn, verður sjálf brezkur þegn að giftingu; og giftist kona, sem er brezkur þegn, útlendum manni, missir hún þegnrétt sinn, það er að segja, hún verður útlendingur, eins og maður hennar.

5. *Þegnar að veitingu þegnréttar.*—Útlendingur, sem óskar eftir að verða brezkur þegn, getur eftir þriggja ára bólfestu í Kanada unnið þegnskyldueið þeim, er að ríkjum situr á Bretlandi og öðlast öll einkaréttindi brezkra þegna. Eiðstaf um bólfestu og þegnskyldu má vinna fyrir dómara eða friðdómara og er þá skírteini um það gefið og fært til bókar af réttinum, og eru eiðar þessir á þessa leið:

(a) *Eiður um heimilisfang.*

Eg, Jón Jónsson, frá Winnipeg, herramaður, vinn eið að því og ber það fram, að eg hefi átt heima um þrjú ár í Kanada-veldi í þeim tilgangi að taka mér þar fasta bólfestu, án þess að hafa yfir þenna tíma verið heimilisfastur í nokkuru öðru landi.

Jón Jónsson.

(b) *Þegnskyldueiður.*

Eg, Sigurður Foss, frá Winnipeg, herramaður, vinn eið að því, að eg lofa því einlæglega og sver, að eg ætla að sýna trú og hollustu konungi Játvarði VII. (eða konungmenni því, er þá situr að völdum) sem lögmætum landsdrotni Bretlands og Írlands, og Kanada-veldis, er lýtur og tilheyrir nefndu konungsveldi, og að eg ætla að verja hann

af öllu megni gegn sviksamlegum samsærum og hvers konar uppreistum, er gjörðar kunna að verða gegn hans hátign, krúnunni og virðingu ríkisins, og að eg vil eftir beztu föngum ljósta upp og kunngjöra hans hátign, erfingjum hans og eftirmönnum, öll drottinsvik, glæpsamleg samsæri og árásir, sem eg kann að fá vitneskju um gegn honum eða nokkurum þeirra, og alt þetta sver eg án þess að láta tvíræði felast í orðum sínum, eða vera með vífilengjur í huga eða heimulleg undanbrögð.

Sigurður Foss.

6. *Réttindi og skyldur útlendings.*—Útlendingur getur keypt og selt, átt lönd og lausafé, stefnt öðrum og látið sér stefna; hann er í stuttu máli eins frjáls í öllum efnum búsýslu og verzlunar eins og þegn, nema að því er skipaeign snertir. Þrátt fyrir það verður hann að lúta landslögum öllum, að einu atriði undanþegnu: Útlendingur getur aldrei sekur orðið um drottinsvik. Það sem fyrir þegninn væru drottinsvik, er að eins glæpur fyrir útlendinginn.

7. *Réttarskortur útlendinga.*—Í þeim efnum, sem nú skulu talin, kemur fram réttarskortur útlendinga:

(a) Hann má ekki atkvæði greiða við kosningar og ekki vera kviðdómari.

(b) Hann getur ekkert embætti haft á hendi, hvorki í sveitarstjórn né á þingi.

(c) Hann getur ekki verið meðeigandi í brezku skipi eða fari.

8. *Svipting föðurlands* kemur þá fram, er brezkur þegn segir þeim, er ríkjum ræður á Bretlandi, upp hollustu og gjörist þegn annars veldis.

9. *Endurgjöf föðurlands* á sér stað, þegar brezkur þegn, er sviptur hefir verið föðurlandi, vinnur hollustueið og gjörist aftur brezkur þegn.

| 2 dollars. | | | | | | 3 dollars. | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 6% | 7% | 8% | 10% | | | 6% | 7% | 8% | 10% |
| | | | | dagar | 1 | | | | |
| | | | | | 2 | | | | |
| | | | | | 3 | | | | |
| | | | | | 4 | | | | |
| | | | | | 5 | | | | |
| | | | | | 6 | | | | |
| | | | | | 7 | | | | 01 |
| | | | | | 8 | | | 01 | 01 |
| | | | 01 | | 9 | | 01 | 01 | 01 |
| | | | 01 | | 10 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| | | | 01 | | 11 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| | | 01 | 01 | | 12 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| | 01 | 01 | 01 | | 13 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| | 01 | 01 | 01 | | 14 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 15 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 16 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 17 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 18 | 01 | 01 | 01 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 19 | 01 | 01 | 01 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 20 | 01 | 01 | 01 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 21 | 01 | 01 | 01 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 22 | 01 | 01 | 01 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 23 | 01 | 01 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 24 | 01 | 01 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 25 | 01 | 01 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 26 | 01 | 02 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 02 | | 27 | 01 | 02 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 02 | | 28 | 01 | 02 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 02 | | 29 | 01 | 02 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 02 | | 33 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 02 | 02 | 03 | 04 | | 63 | 03 | 04 | 04 | 05 |
| 03 | 04 | 04 | 05 | | 93 | 05 | 05 | 06 | 08 |
| 01 | 01 | 01 | 02 | mánuðir | 1 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 02 | 02 | 03 | 03 | | 2 | 03 | 04 | 04 | 05 |
| 03 | 04 | 04 | 05 | | 3 | 05 | 05 | 06 | 08 |
| 04 | 05 | 05 | 07 | | 4 | 06 | 07 | 08 | 10 |
| 05 | 06 | 07 | 08 | | 5 | 08 | 09 | 10 | 13 |
| 06 | 07 | 08 | 10 | | 6 | 09 | 11 | 12 | 15 |
| 07 | 08 | 09 | 12 | | 7 | 11 | 12 | 14 | 18 |
| 08 | 09 | 11 | 13 | | 8 | 12 | 14 | 16 | 20 |
| 09 | 11 | 12 | 15 | | 9 | 14 | 16 | 18 | 23 |
| 10 | 12 | 13 | 17 | | 10 | 15 | 18 | 20 | 26 |
| 11 | 13 | 15 | 18 | | 11 | 17 | 19 | 22 | 28 |
| 12 | 14 | 16 | 20 | ár | 1 | 18 | 21 | 24 | 30 |
| 24 | 28 | 32 | 40 | | 2 | 36 | 42 | 48 | 60 |
| 36 | 42 | 48 | 60 | | 3 | 54 | 63 | 72 | 90 |

| 4 dollars. | | | | | 5 dollars. | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 6% | 7% | 8% | 10% | | 6% | 7% | 8% | 10% |
| | | | | dagar 1 | | | | |
| | | | | 2 | | | | |
| | | | | 3 | | | | |
| | | | | 4 | | | 01 | 01 |
| | | | 01 | 5 | | 01 | 01 | 01 |
| | | 01 | 01 | 6 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| | 01 | 01 | 01 | 7 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 91 | 8 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | 9 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | 10 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | 11 | 01 | 01 | 01 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | 12 | 01 | 01 | 01 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | 13 | 01 | 01 | 01 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 02 | 14 | 01 | 01 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 02 | 15 | 01 | 01 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 02 | 16 | 01 | 02 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 02 | 02 | 17 | 01 | 02 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 02 | 02 | 18 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 01 | 01 | 02 | 02 | 19 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 01 | 02 | 02 | 02 | 20 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 01 | 02 | 02 | 02 | 21 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 01 | 02 | 02 | 02 | 22 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 02 | 02 | 02 | 03 | 23 | 02 | 02 | 03 | 03 |
| 02 | 02 | 02 | 03 | 24 | 02 | 02 | 03 | 03 |
| 02 | 02 | 02 | 03 | 25 | 02 | 02 | 03 | 03 |
| 02 | 02 | 02 | 03 | 26 | 02 | 03 | 03 | 04 |
| 02 | 02 | 02 | 03 | 27 | 02 | 03 | 03 | 04 |
| 02 | 02 | 02 | 03 | 28 | 02 | 03 | 03 | 04 |
| 02 | 02 | 03 | 03 | 29 | 02 | 03 | 03 | 04 |
| 02 | 03 | 03 | 04 | 33 | 03 | 03 | 04 | 05 |
| 04 | 05 | 06 | 07 | 63 | 05 | 06 | 07 | 09 |
| 06 | 07 | 08 | 10 | 93 | 08 | 09 | 10 | 13 |
| 02 | 02 | 03 | 03 | mánuðir 1 | 03 | 03 | 03 | 04 |
| 04 | 05 | 05 | 07 | 2 | 05 | 06 | 07 | 08 |
| 06 | 07 | 08 | 10 | 3 | 08 | 09 | 10 | 13 |
| 08 | 09 | 11 | 13 | 4 | 10 | 12 | 13 | 17 |
| 10 | 12 | 13 | 17 | 5 | 13 | 15 | 17 | 21 |
| 12 | 14 | 16 | 20 | 6 | 15 | 18 | 20 | 25 |
| 14 | 16 | 19 | 23 | 7 | 18 | 20 | 23 | 29 |
| 16 | 19 | 21 | 27 | 8 | 20 | 23 | 27 | 33 |
| 18 | 21 | 24 | 30 | 9 | 23 | 26 | 30 | 38 |
| 20 | 23 | 27 | 33 | 10 | 25 | 29 | 33 | 42 |
| 22 | 26 | 29 | 37 | 11 | 28 | 32 | 37 | 46 |
| 24 | 28 | 32 | 40 | ár 1 | 30 | 35 | 40 | 50 |
| 48 | 56 | 64 | 80 | 2 | 60 | 70 | 80 | 1,00 |
| 72 | 84 | 96 | 1.20 | 3 | 90 | 1.05 | 1.20 | 1.50 |

| 6 dollars. | | | | | 7 dollars. | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 6% | 7% | 8% | 10% | | 6% | 7% | 8% | 10% |
| | | | | 1 | | | | |
| | | | | 2 | | | | |
| | | | 01 | dagar 3 | | | | 01 |
| | | 01 | 01 | 4 | | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | 5 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | 6 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | 7 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | 8 | 01 | 01 | 01 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 02 | 9 | 01 | 01 | 01 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 02 | 10 | 01 | 01 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 02 | 11 | 01 | 01 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 02 | 02 | 12 | 01 | 02 | 02 | 02 |
| 01 | 02 | 02 | 02 | 13 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 01 | 02 | 02 | 02 | 14 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 02 | 02 | 02 | 03 | 15 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 02 | 02 | 02 | 03 | 16 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 02 | 02 | 02 | 03 | 17 | 02 | 02 | 03 | 03 |
| 02 | 02 | 02 | 03 | 18 | 02 | 02 | 03 | 04 |
| 02 | 02 | 03 | 03 | 19 | 02 | 03 | 03 | 04 |
| 02 | 02 | 03 | 03 | 20 | 02 | 03 | 03 | 04 |
| 02 | 02 | 03 | 04 | 21 | 02 | 03 | 03 | 04 |
| 02 | 03 | 03 | 04 | 22 | 03 | 03 | 03 | 04 |
| 02 | 03 | 03 | 04 | 23 | 03 | 03 | 04 | 04 |
| 02 | 03 | 03 | 04 | 24 | 03 | 03 | 04 | 05 |
| 03 | 03 | 03 | 04 | 25 | 03 | 03 | 04 | 05 |
| 03 | 03 | 03 | 04 | 26 | 03 | 04 | 04 | 05 |
| 03 | 03 | 04 | 05 | 27 | 03 | 04 | 04 | 05 |
| 03 | 03 | 04 | 05 | 28 | 03 | 04 | 04 | 05 |
| 03 | 03 | 04 | 05 | 29 | 03 | 04 | 05 | 06 |
| 03 | 04 | 04 | 06 | 33 | 04 | 04 | 05 | 06 |
| 06 | 07 | 08 | 11 | 63 | 07 | 09 | 10 | 12 |
| 09 | 11 | 12 | 16 | 93 | 11 | 13 | 14 | 18 |
| 03 | 04 | 04 | 05 | 1 | 04 | 04 | 05 | 06 |
| 06 | 07 | 08 | 10 | 2 | 07 | 08 | 09 | 12 |
| 09 | 11 | 12 | 15 | mánuðir 3 | 11 | 12 | 14 | 18 |
| 12 | 14 | 16 | 20 | 4 | 14 | 16 | 19 | 23 |
| 15 | 18 | 20 | 25 | 5 | 18 | 20 | 23 | 29 |
| 18 | 21 | 24 | 30 | 6 | 21 | 25 | 28 | 35 |
| 21 | 25 | 28 | 35 | 7 | 25 | 29 | 33 | 41 |
| 24 | 28 | 32 | 40 | 8 | 28 | 33 | 37 | 47 |
| 27 | 32 | 36 | 45 | 9 | 32 | 37 | 42 | 53 |
| 30 | 35 | 40 | 50 | 10 | 35 | 41 | 47 | 58 |
| 33 | 39 | 44 | 55 | 11 | 39 | 45 | 51 | 64 |
| 36 | 42 | 48 | 60 | 1 | 42 | 49 | 56 | 70 |
| 72 | 84 | 96 | 1.20 | ár 2 | 84 | 98 | 1.12 | 1.40 |
| 1.08 | 1.26 | 1.44 | 1.80 | 3 | 1,26 | 1,47 | 1,68 | 2.10 |

| 8 dollars. | | | | | | 9 dollars. | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 6% | 7% | 8% | 10% | | | 6% | 7% | 8% | 10% |
| | | | | dagar | 1 | | | | |
| | | | | | 2 | | | | 01 |
| | | 01 | 01 | | 3 | | | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 4 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 5 | 01 | 01 | 01 | 01 |
| 01 | 01 | 01 | 01 | | 6 | 01 | 01 | 01 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 02 | | 7 | 01 | 01 | 01 | 02 |
| 01 | 01 | 01 | 02 | | 8 | 01 | 01 | 02 | 02 |
| 01 | 01 | 02 | 02 | | 9 | 01 | 02 | 02 | 02 |
| 01 | 02 | 02 | 02 | | 10 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 01 | 02 | 02 | 02 | | 11 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 02 | 02 | 02 | 03 | | 12 | 02 | 02 | 02 | 03 |
| 02 | 02 | 02 | 03 | | 13 | 02 | 02 | 03 | 03 |
| 02 | 02 | 02 | 03 | | 14 | 02 | 02 | 03 | 04 |
| 02 | 02 | 03 | 03 | | 15 | 02 | 03 | 03 | 04 |
| 02 | 02 | 03 | 04 | | 16 | 02 | 03 | 03 | 04 |
| 02 | 03 | 03 | 04 | | 17 | 03 | 03 | 03 | 04 |
| 02 | 03 | 03 | 04 | | 18 | 03 | 03 | 04 | 05 |
| 03 | 03 | 03 | 04 | | 19 | 03 | 03 | 04 | 05 |
| 03 | 03 | 04 | 04 | | 20 | 03 | 04 | 04 | 05 |
| 03 | 03 | 04 | 05 | | 21 | 03 | 04 | 04 | 05 |
| 03 | 03 | 04 | 05 | | 22 | 03 | 04 | 04 | 06 |
| 03 | 04 | 04 | 05 | | 23 | 03 | 04 | 05 | 06 |
| 03 | 04 | 04 | 05 | | 24 | 04 | 04 | 05 | 06 |
| 03 | 04 | 04 | 06 | | 25 | 04 | 04 | 05 | 06 |
| 03 | 04 | 05 | 06 | | 26 | 04 | 05 | 05 | 07 |
| 04 | 04 | 05 | 06 | | 27 | 04 | 05 | 05 | 07 |
| 04 | 04 | 05 | 06 | | 28 | 04 | 05 | 06 | 07 |
| 04 | 05 | 05 | 06 | | 29 | 04 | 05 | 06 | 07 |
| 04 | 05 | 06 | 07 | | 33 | 05 | 06 | 07 | 08 |
| 08 | 10 | 11 | 14 | | 63 | 09 | 11 | 13 | 16 |
| 12 | 14 | 17 | 21 | | 93 | 14 | 16 | 19 | 23 |
| 04 | 05 | 05 | 07 | mánuðir | 1 | 05 | 05 | 06 | 08 |
| 08 | 09 | 11 | 13 | | 2 | 09 | 11 | 12 | 16 |
| 12 | 14 | 16 | 20 | | 3 | 14 | 16 | 18 | 23 |
| 16 | 19 | 21 | 27 | | 4 | 18 | 21 | 24 | 30 |
| 20 | 23 | 27 | 33 | | 5 | 23 | 26 | 30 | 38 |
| 24 | 28 | 32 | 40 | | 6 | 27 | 32 | 36 | 45 |
| 28 | 33 | 37 | 47 | | 7 | 32 | 37 | 42 | 53 |
| 32 | 37 | 43 | 53 | | 8 | 36 | 4 | 48 | 60 |
| 36 | 42 | 48 | 60 | | 9 | 41 | 47 | 54 | 68 |
| 40 | 47 | 53 | 67 | | 10 | 45 | 53 | 60 | 75 |
| 44 | 51 | 59 | 73 | | 11 | 50 | 58 | 66 | 83 |
| 48 | 56 | 64 | 80 | ár | 1 | 54 | 63 | 72 | 90 |
| 96 | 1.12 | 1.28 | 1.60 | | 2 | 1,08 | 1.26 | 1 44 | 1.80 |
| 1.44 | 1,68 | 1.92 | 2.40 | | 3 | 1.62 | 1.89 | 2.16 | 2.70 |

# Stjórnarskrá Bandaríkjanna.

---

Vér, lýður Bandaríkjanna, setjum og samþykkjum þessi grundvallarlög fyrir Bandaríkin í Ameríku, í þeim tilgangi að koma á fullkomnari sameining, skipa fyrir um réttarfarið, vernda landsfriðinn, ákveða sameiginlega landvörn, efla almenna vellíðun og tryggja sjálfum oss og niðjum vorum blessun frelsisins.

## I. KAFLI.

### *Löggjafarvaldið.*

*1. Grein.* Alt löggjafarvald, sem hér er skipað fyrir um, skal vera hjá þingi Bandaríkjanna; skulu deildir þess vera öldungaráð og fulltrúadeild.

*2. Grein.* Fulltrúadeildin skal skipuð mönnum, sem kosnir eru annaðhvort ár af almenningi hinna ýmsu ríkja og þeir, sem kosnir eru í ríki hverju, verða að fullnægja þeim skilyrðum, sem sett eru fyrir kjörgengi þeirra, er skipa fjölmennari deild löggjafarþinga ríkjanna.

Enginn má fulltrúi vera, nema hann hafi náð tuttugu og fimm ára aldri, hafi verið sjö ár borgari Bandaríkjanna og eigi heimilisfang í því ríki, þar sem hann er kosinn, þegar kosning fer fram.

Fulltrúatölu og beinum sköttum skal jafna niður meðal hinna ýmsu ríkja, er ganga í bandalag þetta, eftir íbúatölu hvers þeirra, sem ákveðin skal með því að bæta við fulla tölu frjálsra manna, að þeim meðtöldum, sem vistaðir eru um ákveðinn árafjölda, en frátöldum öllum Indíánum, er ekki greiða skatt,— þremur fimtu hlutum allra annarra manna. Skal greinilegt fólkstal tekið innan þriggja

ára eftir að hið fyrsta þing Bandaríkjanna kemur saman, og síðan á tíu ára fresti, á þann hátt, er ákveðið skal með lögum. Tala fulltrúanna skal ekki fara fram yfir einn fyrir hver þrjátíu þúsund, en hvert ríki skal að minsta kosti hafa einn fulltrúa; og þangað til slíkt manntal er tekið, skal ríkinu New Hampshire heimilt að kjósa þrjá; Massachusetts átta; Rhode Island og Providence nýlendunum einn; Connecticut fimm; New York sex;Virginia tíu; Norður Carolina fimm; Suður Carolina fimm; og Georgia þrjá.

Þegar fulltrúaembætti einhvers ríkis verður autt, skal framkvæmdarvald þess skipa fyrir um að kosningar fari fram til að skipa slíkt embætti.

Fulltrúadeildin skal kjósa sér forseta og aðra embættismenn; hún ein skal hafa kæruvald á hendi.

*3. Grein.* Öldungadeild Bandaríkjanna skal skipuð tveimur öldungum frá ríki hverju, kjörnum af löggjafarþingi þess til sex ára; skal hver öldungur hafa eitt atkvæði.

Um leið og þeir koma saman eftir fyrstu kosningu, skal þeim skift í þrjá flokka, eins jafna og unt er. Öldungar þeir, er fyrsta flokk skipa, skulu víkja úr sæti að tveim árum liðnum; þeir, er annan flokk skipa, að fjórum árum liðnum; og þeir, er þriðja flokk skipa, að sex árum liðnum, svo að kjósa megi einn þriðjung þeirra á tveggja ára bili; og ef auðn verður fyrir uppgjöf eða á annan hátt á þeim tíma, er löggjafarþing einhvers ríkis ekki er háð, má framkvæmdarvald þess setja mann í embætti til bráðabirgða, þangað til þing kemur saman næst, er þá skal kjósa mann í embættið.

Enginn maður skal öldungur verða fyrr en hann hefir náð þrítugsaldri og verið níu ár borgari Bandaríkjanna, og ekki hefir heimilisfang, þegar hann er kosinn, í því ríki, er kýs hann.

Varaforseti Bandaríkjanna skal vera forseti öldungaráðsins, en skal ekkert atkvæði greiða, nema því að eins, að atkvæði falli jafn-mörg á báðar hliðar.

Öldungaráðið kýs sér aðra embættismenn og einnig forseta til bráðabirgða í fjarveru varaforseta, eða þegar hann gegnir embætti forseta Bandaríkjanna.

Öldungaráðið eitt hefir vald til að dæma í kærumálum; þegar það heldur fundi í þeim tilgangi, skal sérstakur eiður eða játning tekin af öllum. Þegar forseti Bandaríkjanna er kærður, skal háyfirdómarinn skipa forsæti; skal enginn sekur fundinn nema tveir þriðju viðstaddra öldunga veiti því samþykki.

Dómar í kærumálum um embættisafglöp skulu að eins víkja úr embætti og gjöra málsaðila óhæfan til að gegna nokkuru heiðursembætti, trúnaðarerindi eður ábatastarfi fyrir Bandaríkin; en sá, sem sekur er fundinn, skal ekki undanþeginn stefnu, prófi, dómi og hegning að lögum.

*4. Grein.* Um kjörtíma, kjörstaði og kjöraðferð við kosningar öldunga og fulltrúa skal ákveðið í ríki hverju af löggjafarþingi þess; en sambandsþingið hefir ávalt vald til að semja slíkar fyrirskipanir eða breyta þeim með lögum, nema að því, er kjörstaði öldunganna snertir.

Sambandsþingið skal saman koma að minsta kosti eitt sinn ár hvert og skal fundur sá vera fyrsta mánudaginn í desembermánuði, nema því að eins að annar dagur sé ákveðinn með lögum.

*5. Grein.* Hver þingdeild skal vera dómari í málum út af kosningum, atkvæðagreiðslu, og kjörgengi þeirra, er þar eiga sæti; heimtist meiri hluti atkvæða í hverri þeirra til þess gjörðir þeirra séu lögmætar; en frestað getur minni hluti fundum dag

frá degi og eins má veita honum heimild til að neyða þá, sem fjarverandi eru, til að sækja fundi, á þann hátt og með þeim sektum, sem hver þingdeild ákveður.

Hver þingdeild má ákveða sín eigin þingsköp, hegna þingmönnum fyrir ósæmilegt framferði, og gjöra þá ræka, ef tveir þriðju hlutar samþykkja.

Hver þingdeild skal halda gjörðabók yfir það, sem fram fer, og skal smám saman birta hana á prenti, nema þá hluta hennar, sem að allra dómi, ætti heldur leyndum að halda; skulu já og nei þingmanna í báðum deildum í hvaða máli sem er, færast til bókar, ef fimtungur þeirra, er viðstaddir eru, óska þess.

Meðan sambandsþing stendur yfir skal hvorug þingdeildin án leyfis hinnar fresta fundi í meir en þrjá daga, né flytja fundi á annan stað en þann, er þingdeildirnar báðar eiga að koma saman á.

*6. Grein.* Öldungar og fulltrúar skulu fá borgun fyrir störf sín, er ákveðin skal með lögum, og greidd úr fjárhirzlu Bandaríkjanna. Skulu þeir í öllum málum hafa þau forréttindi að vera ekki fastir teknir, nema fyrir landráð, glæpi og friðrof, meðan þeir sitja á fundum þingdeilda sinna eða eru á leið af fundi og á; ekki skal mega koma ábyrgð á hendur þeim fyrir nokkura ræðu eða deilu, í hverri málstofunni sem er, á nokkurum öðrum stað.

Engan öldung eða fulltrúa skal útnefna til nokkurs borgaralegs embættis, er Bandaríkin hafa yfirráð yfir, áður kjörtímabil þeirra er útrunnið, hafi embættið myndað verið eða tekjur þess auknar á því tímabili; og í hvorugri þingdeildinni skal nokkur maður sæti eiga, sem embætti hefir undir yfirráðum Bandaríkjanna meðan sá embættistími stendur yfir.

*7. Grein.* Öll löggjöf, er ákveður opinber

gjöld, skal fyrst borin upp í fulltrúadeildinni; en öldungadeildin má fram koma með tillögur um og samþykkja viðauka við slík lög eins og önnur lög.

Hvert frumvarp til laga, sem samþykki hefir öðlast í fulltrúadeildinni og öldungaráðinu, skal leggjast fyrir forseta Bandaríkjanna, áður en það verður lög; sé hann því samþykkur, riti hann nafn sitt undir það; sé hann það eigi, skal hann endursenda það með andmælum sínum þeirri þingdeildinni, þar sem það hefir fyrst verið upp borið; skal hún þá færa andmæli hans orðrétt til gjörðabókar og taka svo málið fyrir aftur. Ef að tveimur þriðju hlutum þingdeildar kemur saman um að samþykkja lögin eftir ítrekaða umhugsun, skal hún senda þau ásamt andmælunum hinni þingdeildinni og skulu þau einnig þar aftur verða tekin til íhugunar; ef sú deild samþykkir þau einnig, skal frumvarpið verða að lögum. En í öllum slíkum málum skal atkvæðagreiðsla í báðum þingdeildum fara fram með já og nei og nöfn þeirra, er atkvæði greiða, skulu færð til bókar í hverri þingdeild fyrir sig. Ef eitthvert frumvarp er ekki endursent af forseta innan tíu daga (að frátöldum sunnudegi) eftir að það hefir verið fyrir hann lagt, verður það að lögum á sama hátt og þó hann hefði ritað nafn sitt undir það, nema sambandsþingið með því að fresta fundum komi í veg fyrir endursending þess; þá verður það ekki að lögum.

Hver fyrirskipun, þingsályktun eða atkvæðagreiðsla, er sameiginlegt samþykki öldungaráðsins og fulltrúadeildarinnar þarf til (nema í þingsfrestunarmálum), skal lögð fyrir forseta Bandaríkjanna; og áður slíkt geti öðlast gildi, skal það fá samþykki hans, eða ef hann neitar því samþykkis, skal það verða samþykt að nýju af tveim þriðju hlutum öldungaráðsins og fulltrúadeildarinnar, sam-

kvæmt reglum þeim og takmörkunum, sem gilda, þar sem um frumvarp er að ræða.

*8. Grein.* Sambandsþingið hefir vald til að leggja á og krefja inn skatta, tolla, álögur og gjöld, að greiða skuldir, bera umhyggju fyrir sameiginlegri landvörn og velferð Bandaríkjanna; en allir tollar, álögur og gjöld skulu vera hin somu hvarvetna í Bandaríkjunum;

að lána fé gegn ábyrgð Bandaríkjanna;

að efla verzlun við erlendar þjóðir, milli hinna einstöku ríkja og við þjóðflokka Indíána;

að koma á sameiginlegri reglu fyrir veiting þegnréttinda, og sameiginlegum gjaldþrotalögum um öll Bandaríkin;

að slá peninga, ákveða gildi þeirra og erlendra peninga, að staðfesta þyngd og mál;

að skipa fyrir um hegning fyrir fölsun skuldabréfa og gjaldeyris Bandaríkjanna;

að stofna póstafgreiðslustaði og póstvegi;

að efla framfarir vísinda og nytsamra í'rótta með því að veita rithöfundum og hugvitsmönnum einkaréttindi um ákveðin tímabil fyrir ritverk sín og uppfundningar;

að stofna lægri dómstóla, er heyri undir hæsta rétt;

að ákveða um og hegna fyrir gripdeildir og glæpi, sem framið er á höfum úti, og brot gegn alþjóðaréttinum;

að segja öðrum stríð á hendur, veita leyfisbréf til víkingsskapar og fjárnáms og semja reglur um hernám á sjó og landi;

að safna her og sjá fyrir honum, en engin fjárveiting í því augnamiði skal lengur gilda en til tveggja ára;

að koma upp og halda herskipastól við lýði;

að semja reglugjörð fyrir stjórn og skipulagi hersins bæði til lands og sjávar;

að sjá um að landvarnarliðið sé kallað saman til þess lögin nái fram að ganga, til að kefja uppreistir og verjast árásum;

að sjá um skipulag, vopnaburð og aga í landvarnarliðinu, og stýra þeim hluta þess, sem ganga kann í þjónustu Bandaríkjanna; en hvert einstakt ríki skal útnefna herforingja og sjá um heræfingar landvarnarliðsins samkvæmt heragareglum þeim, er sambandsþingið ákveður;

að hafa algjörlega alla löggjöf á hendi í alls konar málum út af landspildu þeirri (er ekki má stærri vera en tíu ferhyrningsmílur), sem verða kann stöðvar Bandaríkjastjórnarinnar, fyrir afsal einstakra ríkja og viðtöku sambandsþingsins, og að hafa sams konar vald yfir öllum stöðvum, sem keyptar kunna að verða með samþykki löggjafarþings þess ríkis, er slíkar stöðvar selur, þar sem reisa megi virki, geymsluskála, hergagnabúr, skipasmíðastöðvar og önnur nauðsynjahús; og

að semja öll lög, sem nauðsynlegu eru og hæfileg til framkvæmdar öllu því valdi, sem veitt hefir verið hér að framan, og alls konar öðru valdi, sem grundvallarlög þessi veita stjórn Bandaríkjanna, einstökum deildum hennar eða embættismönnum.

*9. Grein.* Ferðalag eða innflutning fólks, sem einhver hinna núverandi ríkja álíta rétt að leyfa, skal sambandsþingið ekki banna fyrir árið eitt þúsund átta hundruð og átta; en skatt eða gjald má leggja á slíkan innflutning, þó ekki hærri en tíu dollara á hvern mann.

Stefnur að lögum *(Writs of Habeas Corpus)* skulu ekki látnar niður falla, nema því að eins að velferð landsins krefjist þess á tímum uppreistar og hernaðar.

Ekkert frumvarp til laga um líflát og eignamissi án dóms og laga né *ex post facto* lög skal samþykkja.

Engan nefskatt eða annan beinan skatt skal leggja, nema í hlutfalli við manntal það, sem áður er skipað fyrir um að taka skuli.

Engan skatt eða toll skal leggja á nokkura vöru, sem flutt er út úr nokkuru ríki.

Engin einkaréttindi skulu veitt verða með reglugjörðum um verzlun og skattgreiðslu einstökum höfnum eins ríkis framar en öðrum; ekki skulu heldur skip, sem á ferð eru frá einu ríki eða til annars, skyldug að greiða öðru ríki gjöld eða tolla.

Ekki skal fé úr fjárhirzlu taka nema samkvæmt löglegum veitingum; skal greinilegt yfirlit og reikningur yfir opinberar tekjur og gjöld birtast á hæfilegum tímum.

Engin aðalstign skal nokkurum veitt verða af stjórn Bandaríkjanna; enginn embættismaður þeirra skal án samþykkis sambandsþingsins taka við gjöfum, hlunnindum, embætti eða nafnbótum, hverrar tegundar sem er, frá nokkurum konungi, þjóðhöfðingja eða erlendu ríki.

*10. Grein.* Ekkert ríki skal nokkurn samning gjöra, né ganga inn í nokkurt samband eða bandalag veita leyfisbréf til víkingsskapar eða hernáms, móta peninga, gefa út skuldabréf, gjöra nokkuð annað en gull eða silfurmynt að lögeyri til skuldalúkninga, samþykkja lagafrumvörp um fjörtjón, *ex post facto* lög eða lög, sem brjóta bág við gildandi samninga, eða veita nokkura aðalstign.

Ekkert ríki skal án samþykkis sambandsþingsins leggja nokkurar álögur eða skatta á innfluttar eða útfluttar vörur, nema að svo miklu leyti sem nauðsyn þykir krefja svo tollgæzlulögum þess verði framfylgt; og það, sem um fram er kostnað við inn-

köllun á tollum og álögum, skal til afnota vera fyrir fjárhirzlu Bandaríkjanna; skal sambandsþingið hafa eftirlit með og yfirráð yfir allri slíkri löggjöf.

Ekkert ríki skal án samþykkis sambandsþingsins leggja toll á rúmmál skipa, halda herlið, eða herskip á friðartímum, gjöra samninga eða bandalag við nokkurt annað ríki eða við erlent stjórnarvald, eða taka þátt í hernaði, nema ráðist sé á það eða það sé í svo bráðri hættu að enga bið þoli.

## II. KAFLI.

*Framkvæmdarvaldið.*

*1. Grein.* Framkvæmdarvaldið skal vera í hendi forseta Bandaríkjanna í Ameríku. Hann skal embætti hafa um fjögra ára tíma og ásamt varaforseta, sem kosinn er til jafn-langs tíma, skal hann kosinn á þann hátt, sem hér segir.

Hvert ríki skal setja kjörnefnd með þeim hætti, er löggjafarþing þess ákveður, er skipuð sé jafnmörgum mönnum og ráðherrar þeir og fulltrúar eru, sem sæti eiga á sambandsþingi frá því ríki; en enginn ráðherra né fulltrúi, né menn, sem embætti hafa, eða í trúnaðar- og ábatastöðum eru undir stjórn Bandaríkjanna skal settur í kjörnefnd*).

Sambandsþingið getur ákveðið tímann til að kjósa kjörnefnd þessa og daginn, er þeir skulu atkvæði greiða; skal dagurinn vera hinn sami um öll Bandaríkin.

Enginn, sem ekki er innfæddur borgari, eða borgari Bandaríkjanna, þegar þessi stjórnarskrá er samþykkt, skal kjörgengur vera til forsetaembættis; eigi skal heldur neinn kjörgengur vera til þess em-

---

*) Þessari aðferð við kosning forseta og varaforseta hefir verið breytt með tólfta viðaukanum.

bættis, sem ekki er 35 ára gamall og verið hafi 14 ár í Bandaríkjunum.

Sé forseti settur frá embætti, eða deyi hann, segi af sér, eða verði óhæfur til að hafa völd og skyldur embættisins á hendi, skal varaforsetinn gegna þeim, og getur sambandsþingið skipað fyrir með lögum, hvernig fara skuli við frávikning, dauða, uppsögn eða vanmætti bæði forseta og varaforseta, og gefið yfirlýsing um, hvaða embættismaður þá eigi að gegna forsetastörfum, og skal sá embættismaður gegna þeim störfum meðan á slíku stendur, eða þangað til forseti er kosinn.

Forsetinn skal á tilteknum tímum fá kaup fyrir störf sín, sem hvorki skal aukið verða né minkað á því kjörtímabili, sem hann hefir verið kosinn fyrir, og á því tímabili skulu honum ekki veitt nokkur hlunnindi af hálfu Bandaríkjanna eða nokkurs ríkis.

Áður en hann tekur við embættisstörfum skal hann sverja eið þann eða gjöra þá játning, sem hér segir:

„Eg sver þess dýran eið (eða játa hátíðlega), að eg skal samvizkusamlega gegna forsetaembætti Bandaríkjanna og skal af fremsta megni varðveita, vernda og verja stjórnarskrá Bandaríkjanna.“

*2 Grein.* Forsetinn skal hafa á hendi æðstu herstjórn bæði í landher og sjóliði Bandaríkjanna og yfir landvarnarliði hinna ýmsu ríkja, þegar það er boðið út í ákveðna þjónustu Bandaríkjanna; hann getur óskað eftir skriflegu áliti helzta embættismannsins í hverri deild stjórnarvaldsins í hverju því máli, sem undir embætti hvers þeirra heyrir, og hann skal vald hafa til að veita refsingarfrest og náðun fyrir brot gegn Bandaríkjunum, nema fyrir embættisafglöp.

Hann skal vald hafa til að gjöra samninga með

ráði og samþykki öldungadeildarinnar, þegar tveir þriðju hlutar viðstaddra öldunga eru því fylgjandi: hann skal tilnefna og með ráði og samþykki öldungadeildarinnar skipa sendiherra, aðra opinbera ráðherra og verzlunarfulltrúa, dómara í hæstarétt og alla aðra embættismenn Bandaríkjanna, þegar hér er ekki á annan hátt sagt fyrir um skipun þeirra í embætti eða ákveðið með lögum; en sambandsþingið getur með lögum veitt forseta einum vald til að skipa þeim lægri embættismönnum í embætti, er þeim kann rétt að sýnast, við dómstólana eða stjórnardeildirnar.

Forseti skal vald hafa til að skipa auð embætti, ef embættisauðn verður, þegar öldungadeildin hefir þinghlé, með því að veita erindisbréf, er gildandi sé, þangað til næsti þingtími hennar rennur út.

*3. Grein.* Á ýmsum tímum skal hann leggja fyrir sambandsþingið vísbendingar um ástand ríkisheildarinnar og ráðleggja þeim að taka þær ráðstafanir til meðferðar, er hann álítur áríðandi og hagkvæmar; þegar sérstakar ástæður eru til, getur hann kallað báðar þingdeildir saman, eða aðra hvora þeirra, og komi þær sér eigi saman um þingrofstímann, getur hann frestað þingi til þess tíma, er að áliti hans er hagkvæmur; hann skal taka á móti sendiherrum og öðrum opinberum ráðherrum; hann skal sjá um að lögunum sé fylgt með trúmensku og skal fá öllum embættismönnum Bandaríkjanna umboð í hendur.

*4. Grein.* Forseta, varaforseta og öllum borgaralegum embættismönnum Bandaríkjanna skal vikið úr embætti, þegar þeir eru kærðir eða dæmdir fyrir landráð, mútugjafir eða mútuþágu eða aðra stórglæpi og yfirsjónir.

## III. KAFLI.

*1. Grein.* Dómsvald Bandaríkjanna skal vera hjá einum hæstarétti, og hjá þess konar lægri dómstólum, er sambandsþingið eftir því, sem tímar líða, getur skipað fyrir um og stofnað. Dómararnir við hæsta rétt og við hina lægri dómstóla skulu halda embættum sínum meðan þeir gegna stöðu sinni vel, og skulu þeir á ákveðnum tímum fá kaup fyrir starf sitt, sem ekki skal lækkað vera meðan þeir gegna embættinu.

*2. Grein.* Dómsvaldið nær til allra mála, að lögum og sanngirni, er upp geta komið undir grundvallarlögum þessum, lögum Bandaríkjanna, gjörðum samningum, eða þeim, er gjörðir munu verða með heimildum laga; til allra mála snertandi sendiherra, aðra opinbera ráðherra og verzlunarfulltrúa; til allra mála sjóherstjórnarinnar og sjávarlöggjafarinnar; til deilumála þeirra, er Bandaríkin eiga hlut í; til deilumála milli tveggja eða fleiri ríkja; milli ríkis og borgara annars ríkis; milli borgara ýmsra ríkja; milli borgara í sama ríki, er tilkall gjöra til landa, er hin ýmsu ríki hafa veitt; og milli ríkis, eða borgara þess, og erlendra ríkja, borgara eða þegna.

Í öllum málum, er sendiherra snerta eður aðra opinbera ráðherra og verzlunarfulltrúa og í þeim málum, þar sem ríki er málsaðili. skal hæstiréttur hafa frum-dómsvald. Í öllum öðrum málum, sem áður eru nefnd, skal hæstiréttur hafa æðsta dómsvald í áfrýjunarmálum, bæði að því, er lög og málsatriði snertir, með þeim undantekningum og ákvæðum, er sambandsþingið getur gjört.

Öll sakamál, nema mál um embættisafglöp, skulu prófuð fyrir kviðdómi; prófið skal haldið í því ríki, þar sem glæpurinn hefir framinn verið; en þegar glæpurinn hefir ekki verið framinn í nokkuru

ríki, skal prófið fara fram á þeim stað eða stöðum, er sambandsþingið hefir með lögum ákveðið.

*3. Grein.* Landráð gegn Bandaríkjunum skulu einungis í því fólgin að fara með hernað á hendur þeim, eða fylla flokk óvina þeirra og veita þeim hjálp og fulltingi.

Engan skal fyrir landráð sekan gjöra nema fyrir vitnisburð tveggja vitna um sömu augljósu athöfnina eða fyrir játning fyrir opnum rétti.

Sambandsþingið skal vald hafa til að ákveða hegning fyrir landráð; en enginn missir eigna og borgaralegra réttinda fyrir landráð skal áhrif hafa á ættmenn sakbornings og eigi skal missirinn lengur gilda en sá lifir, er fyrir honum varð.

## IV. KAFLI.

*1. Grein.* Fullkomið traust og tiltrú skal í hverju ríki borið til opinberra gjörða, skjala og dómsmálagjörninga allra annarra ríkja. Má sambandsþingið með almennri löggjöf skipa fyrir um, á hvern hátt slíkar gjörðir, skjöl og dómar skuli öðlast fult sönnunargildi, og þýðingu þeirra.

*2. Grein.* Borgarar hvers ríkis eiga heimting á einkaréttindum og undanþágum borgara annarra ríkja.

Maður, sem kærður er um landráð, ódæðisverk, eða einhvern glæp í einhverju ríki og flýr undan réttvísinni og er fastur tekinn í öðru ríki, skal framseldur verða, þegar framkvæmdarvald þess ríkis, er hann flúði úr, krefst þess, til flutnings til þess ríkis, er dómsvald hefir yfir glæpnum.

Enginn maður, sem skuldbundinn er til þjónustu eða vinnu í einhverju ríki samkvæmt lögum þess, og sleppur inn í annað ríki, skal leystur frá skuldbinding til slíkrar þjónustu eða vinnu, með nokkurum lögum eða ákvæðum, sem þar gilda,

heldur skal hann framseldur verða, þegar sá krefst, er heimt'ng átti á þjónustunni eða vinnunni.

*3. Grein.* Nýjum ríkjum má inngöngu veita inn í ríkissamband þetta af sambandsþinginu; en ekkert ríki skal myndað verða eða stofnsett innan lögsagnarumdæmis nokkurs annars ríkis; né heldur skal nokkurt annað ríki myndað við sameining tveggja eða fleiri ríkja eða ríkishluta, án samþykkis löggjafarþinga ríkja þeirra, er hlut eiga að máli, og sambandsþingsins.

Sambandsþingið skal vald hafa til að setja og ákveða nauðsynlegar reglur og fyrirskipanir um landareign og aðra fasteign, sem Bandaríkjunum heyrir til; og ekkert í grundvallarlögum þessum skal skilið verða á þann veg að það vefengi nokkurar kröfur Bandaríkjanna, né nokkurs einstaks ríkis.

*4. Grein.* Bandaríkin skulu ábyrgjast hverju ríki i ríkjasambandi þessu lýðveldislega stjórnarskipun og skulu vernda hvert einstakt þeirra gegn árásum og gegn ofsafengnum upphlaupum heima fyrir, þegar löggjafarþingið fer þess á leit eða framkvæmdarvaldið (þegar ekki er unt að kalla löggjafarþing saman).

## V. KAFLI.

Sambandsþingið skal, hve nær sem tveir þriðju hlutar beggja deilda álíta það nauðsynlegt, koma fram með viðauka við grundvallarlög þessi, eða ef um það er sótt af löggjafarþingum tveggja þriðju hluta hinna ýmsu ríkja, skal það kalla til allsherjar þings *(convention)* til að semja viðauka, og skulu þeir í hvorttveggja falli vera góðir og gildir að öllu leyti eins og einn hluti þessara grundvallarlaga, þegar löggjafarþing þriggja fjórðu hluta hinna ýmsu ríkja hafa samþykt þá, eða þeir hafa verið

samþyktir á allsherjarþingum í þremur fjórðu hlutum þeirra, eftir því hverja aðferðina til samþyktar sambandsþingið hefir fyrir skipað, með því skilyrði að enginn viðauki, er gjörður sé fyrir árið eitt þúsund átta hundruð og átta hafi nein áhrif á fyrsta og fjórða lið níundu greinar fyrsta kafla, og að ekkert ríki án þess að samþykkja það skuli svift hlutfallslegum atkvæðisrétti í öldungaráð nu.

## VI. KAFLI.

Allar skuldir og skuldbindingar, sem til hafa orðið áður en grundvallarlög þessi urðu samþykt, skulu jafn-bindandi vera fyrir Bandaríkin með þessum grundvallarlögum og áður voru þær meðan hið fyrveranda stjórnarfyrirkomulag *(Confederation)* var við lýði

Stjórnarskrá þessi og þau lög Bandaríkjanna, sem samin eru í samræmi við hana, og allir samningar, sem gjörðir eru í nafni Bandaríkjanna, skulu vera landsins æðstu lög; og dómarar allra ríkja skulu af þeim bundnir, hvort sem nokkuð í stjórnarskrám eða lögum hinna annarra ríkja kemur í bága við þau eða ekki.

Öldungarnir og fulltrúarnir, sem nefndir hafa verið, og þingmenn löggjafarþinga hinna einstöku ríkja og allir valdsmenn og dómarar, bæði í Bandaríkjunum og hinum einstöku ríkjum, skulu með eiði eða loforði skuldbundnir til að halda þessa stjórnarskrá; en engar trúarskoðanir skulu nokkurn tíma heimtaðar sem skilyrði fyrir nokkuru embætti eða trúnaðarstöðu undir stjórn Bandaríkjanna.

## VII. KAFLI.

Samþykki allsherjarþinga í níu ríkjum skal fullgilt álitið stjórnarskrá þessari til staðfestingar af hálfu ríkjanna, sem hana samþykkja.

Samþykt á allsherjarþingi með samhljóða atkvæðum allra ríkjanna seytjánda dag septembermánaðar árið drottins eitt þúsund sjö hundruð áttatíu og sjö, og á tólfta ári frá því Bandaríkin í Vesturheimi öðluðust sjálfstæði.

## VIÐAUKAR.*)

I.

Sambandsþingið skal engin lög samþykkja um löggilding trúarbragðanna né til að koma í veg fyrir frjálsa iðkun þeirra; né heldur málfrelsi eða prentfrelsi til skerðingar, né til að aftra fólki frá friðsamlegum mannfundum, eða að senda stjórninni bænarskrá um leiðrétting kvörtunarefna.

II.

Með því landvarnarlið með góðu skipulagi er nauðsynlegt fyrir óhultleika frjálsra ríkja, skal réttur þjóðarinnar til að eiga og bera vopn óskertur látinn.

III.

Á friðartímum skal enginn hermaður vera settur til vistar á nokkuru heimili gegn vilja eigandans, og ekki heldur á styrjaldar tímum nema á þann hátt, sem fyrirskipað verður með lögum.

IV.

Réttur þjóðarinnar til að njóta friðhelgi fyrir persónur sínar, heimili, skjöl og eignir gegn ástæðulausum leitum og kyrsetning skal óskertur látinn; og engar skulu stefnur birtar, nema fyrir sterkar líkur, studdar af eiði eða yfirlýsing, og skal þar staðnum, þar sem leitin skuli fram fara, nákvæm-

*) I. til X. viðaukagrein voru fram bornar á fyrsta sambandsþingi 1789—90; XI. grein 1793; XII. grein 1803; XIII. grein 1865; XIV. grein 1868 og XV. grein 1870

lega lýst, og mönnum þeim og hlutum, er kyrsetja skuli.

V.

Enginn maður skal í haldi hafður til að svara fyrir morð eður annað ódóáðaverk nema samkvæmt kæru og stefnu frá rannsóknarkviðinum, nema í málum, sem upp koma í land- eða sjóhernum, eða landvarnarliðinu, þegar það er í leiðangri á tímum hernaðar og opinberrar hættu. Eigi skal heldur lífi og limum neins manns tvisvar í hættu stofnað fyrir sama brot, né heldur skal hann í glæpamáli neyddur til að bera vitni gegn sjálfum sér; né sviftur vera lífi, frjálsræði eða eignum án reglulegrar aðferðar að lögum; eigi skulu eignir einstaklinga teknar til opinberra afnota nema upp í réttlát gjöld.

VI.

Í öllum málssóknum fyrir glæpi, skal sakborningur njóta þess réttar að fá fljóta og opinbera rannsókn fyrir óhlutdrægum kviðdómi þess ríkis og lögsagnarumdæmis, þar sem glæpurinn hefir framinn verið, og skulu menn áður hafa fullvissað sig um lögsagnarumdæmið að lögum; skal hann vita látinn um eðli og ástæður kærunnar: fram fyrir hann skulu vitni gegn honum leidd vera; útveguð skulu vitni honum í vil með nauðungaraðferð og málfærslumaður skal honum fenginn til aðstoðar við vörn hans.

VII.

Í almennum málum, þar sem þrætuatriðið nemur meira en tuttugu dollara ígildi, skal rétturinn til að rannsaka mál fyrir kviðdómi gilda látinn og ekkert málsatriði, sem rannsakað hefir verið fyrir kviðdómi, skal af nýju rannsakað fyrir nokkurum rétti Bandaríkjanna á annan hátt en samkvæmt fyrirskipunum hinna almennu laga.

VIII.

Óhæfilega mikil ábyrgð skal ekki heimtuð, né óhæfilega þungar sektir lagðar á, né heldur skulu nokkurir sæta látnir harðneskjulegum og sjaldgæfum hegningaraðferðum.

IX.

Upptalning sérstakra réttinda í grundvallarlögunum, skal eigi svo skilin vera, að hún neiti eða dragi úr öðrum, sem áskilin eru þjóðinni.

X

Völd þau, sem ekki eru Bandaríkjunum með grundvallarlögunum áskilin, né með þeim dregin úr höndum ríkjanna, eru hverju einstöku ríki áskilin eða þjóðinni allri.

XI.

Dómsvald Bandaríkjanna skal ekki svo skilið vera, sem nái það til allra mála fyrir dómstólum laga og sanngirni, er hafin eru og haldið fram gegn einu ríki í Bandaríkjunum af borgurum annars ríkis eða af borgurum eða þegnum einhverrar erlendrar þjóðar.

XII.

Kjörnefndin skal í ríki hverju fund halda og með seðlum atkvæði greiða til kosningar forseta og varaforseta, og skal annar þeirra að minsta kosti ekki frá sama ríki vera og sjálfir þeir. Nefna skulu þeir á seðlum sínum þann, er þeir greiða atkvæði, forseta, og á öðrum seðlum þann, er þeir greiða atkvæði, varaforseta; skulu þeir sérstaka skrá gjöra yfir alla þá, er atkvæði voru greidd sem forseta, og yfir alla þá, er atkvæði voru greidd sem varaforseta, og yfir tölu atkvæða, er hverjum hlotnast, og skulu þeir undir skrár þessar nöfn sín rita og vottorð, og innsiglaðar senda til aðseturs stjórnarinnar, með utanáskrift til forseta öldungadeildarinnar. Forseti öldungadeildarinnar skal í nærveru öldunga-

ráðsins og fulltrúadeildarinnar, opna öll vottorðin og skulu þá atkvæðin talin verða; sá, sem flest atkvæði hlotnast hefir til forsetatignar, skal forseti verða, ef sú upphæð er meiri hluti allra atkvæða skipaðrar kjörnefndar; og ef enginn hefir slíkan meiri hluta hlotnast, skal fulltrúadeildin úr tölu þeirra, er flest atkvæði hlotið hafa, er eigi má hærri en þrír vera, á skrá þeirra, er til forseta voru kosnir, þegar í stað með seðlum forseta kjósa. En þegar forseti er kosinn, skulu atkvæði greidd eftir ríkjum, og fulltrúar hvers ríkis eitt atkvæði hafa; lögmætur fjöldi til þessa skal einn eða fleiri frá tveim þriðju ríkjanna vera og meiri hluti allra ríkjanna skal nauðsynlegur vera til þess kosning fari fram. Og kjósi fulltrúadeildin ekki forseta, þegar hún hefir réttinn til þess, fyrir fjórða dag marzmánaðar næstkomanda, skal varaforseti gegna forsetastörfum, eins og þegar forseti fellur frá eða gjörist óhæfur til forseta samkvæmt grundvallarlögunum. Sá, sem flest atkvæði hefir hlotnast til varaforseta, skal varaforseti vera, ef upphæð atkvæðanna er meiri hluti allra atkvæða skipaðrar kjörnefndar; og hafi enginn meira hluta hlotið skal öldungadeildin kjósa annan af þeim tveimur, er flest atkvæði hafa á skránni, fyrir varaforseta; lögmætur fjöldi til þess skal vera tveir þriðju af allri tölu öldunganna, og meiri hluti þeirrar tölu skal nauðsynlegur vera til kosningar. En enginn er kjörgengur til varaforseta Bandaríkjanna, er samkvæmt grundvallarlögunum ekki hefir kjörgengi til forsetaembættis.

## XIII.

1. Hvorki þrældómur né nauðungarvist, nema sem hegning fyrir glæp, er réttilega hafi sannaður verið upp á sakborning, skal eiga sér stað innan

Bandaríkjanna, eða á nokkurum stað, sem lögsagnarumdæmi þeirra nær út yfir.

2. Sambandsþingið skal vald hafa til að sjá um með hæfilegri löggjöf að ákvæði þessu verði fullnægt.

XIV.

1. Allir þeir, sem fæddir eru í Bandaríkjunum og öðlast hafa þegnréttindi þar, eru borgarar Bandaríkjanna, og þess ríkis, þar sem þeir hafa heimilisfang sitt. Ekkert ríki skal semja eða beita nokkurum lögum, er dragi úr einkaréttindum og hlunnindum borgara Bandaríkjanna; eigi skal heldur neitt ríki nokkurn mann lífi, frelsi né eignum svifta án réttrar aðferðar að lögum, né heldur neita nokkurum manni í lögsagnarumdæmi sínu sanngjarnri laganna verndun.

2. Fulltrúatölu skal niður jafnað meðal hinna ýmsu ríkja eftir íbúatölu þeirra og skal tala allra íbúa hvers ríkis til greina tekin, en Indíánar, er ekki greiða skatt, lokaðir úti. En þegar við einhverjar kosningar, þar sem kjósa á kjörnefnd til að velja forseta og varaforseta Bandaríkjanna, fulltrúa til sambandsþings, yfirvöld og dómara einhvers ríkis, eða þingmenn til löggjafarþings, réttindum til að greiða atkvæði er neitað karlmönnum, er heimilisfang eiga í slíku ríki og tuttugu og eins árs gamlir eru, eða þau eru á nokkurn hátt skert, nema fyrir hlutdeild í uppreist eða öðrum glæpum, skal undirstöðu fulltrúatölunnar haggað eftir því hlutfalli, sem tala slíkra karlkyns borgara stendur í við fulla tölu karlkyns borgara tuttugu og eins árs gamalla í því ríki.

3. Enginn skal í öldungaráði eða fulltrúadeild sambandsþingsins eða í kjörnefnd, til að velja forseta og varaforseta, vera, eða nokkuru embætti gegna sem borgari eða hermaður undir stjórn

Bandaríkjanna, eða undir stjórn nokkurs annars ríkis, sem tekið hefir þátt í upphlaupi eða uppreist gegn þeim eða veitt óvinum þeirra hjálp og liðsinni, eftir að hafa áður eið unnið sem þingmaður sambandsþingsins eða sem yfirvald eða dómari nokkurs ríkis að stjórnarskrá Bandaríkjanna. En sambandsþingið getur afmáð þessa réttarskerðing með tveim þriðju hlutum atkvæða í hverri þingdeild.

4. Gildi ríkisskuldar Bandaríkjanna skal óskert talið eins og það er með lögum ákveðið, að þeim skuldum meðtöldum, er til hafa orðið fyrir greiðslu eftirlauna eða verðlauna fyrir frækilega frammistöðu við að kæfa upphlaup eða uppreist. En hvorki skulu Bandaríkin eða nokkurt ríki taka að sér að gjalda nokkura skuld eða skuldbinding, sem myndast hefir til hjálpar upphlaupi eða uppreist gegn Bandaríkjunum, né heldur nokkura kröfu fyrir missi nokkurs þræls eða lausn hans úr áþján; en allar slíkar skuldir, skuldbindingar og kröfur skulu ólögmætar og ógildar haldnar.

5. Sambandsþingið skal vald hafa til að sjá um að viðauka þessum verði fullnægt með hentugri löggjöf.

XV.

1. Atkvæðisréttur borgara Bandaríkjanna skal óskerður látinn og ekki neitað verða af hálfu Bandaríkjanna, eða hálfu nokkurs ríkis vegna ætternis, hörundslitar eða fyrrverandi áþjánar.

2. Sambandsþingið skal vald hafa til að sjá um að viðauka þessum verði fullnægt með hentugri löggjöf.

---

## Lög um veiting þegnréttinda í Bandaríkjunum.

---

Skilyrðin fyrir því og aðferðin til þess að erlendur maður megi gjörast borgari Bandaríkjanna eru tekin fram í hinum endurskoðuðu lögum Bandaríkjanna (*Revised Statutes of the United States*).

*Yfirlýsing.*

Útlendingurinn verður að gjöra þá yfirlýsing og vinna eið að henni fyrir héraðsrétti Bandaríkjanna, eða fyrir héraðsrétti fylkjanna, eða fyrir rétti einhvers ríkis, sem hefir alment lögsagnarumdæmi og innsigli og skrifara, að minsta kosti tveim árum áður en hann getur orðið borgari, að það sé *bona fide* fyrirætlun hans að verða borgari Bandaríkjanna, og hafna allri hollustu og hlýðni við alla erlenda þjóðhöfðingja og ríki og sérstaklega við þann, sem hann á þeim tíma er þegnskyldur.

*Eiður.*

Um leið og hann ber fram umsókn sína um að verða gjörður borgari, verður hann að vinna eið að þeirri yfirlýsing fyrir einhverjum rétti, sem nefndur er hér að ofan, „að hann vilji hlýða stjórnarskrá Bandaríkjanna og að hann undantekningarlaust og að öllu leyti hafni og sverji sig undan allri hollustu og hlýðni við alla erlenda þjóðhöfðingja, valdsmenn, ríki eða einvaldsstjórnir, þar sem hann hefir áður verið borgari eða þegn og verður þetta eiðspjall að bókast af skrifara réttarins.

*Skilyrðin fyrir borgararétti.*

Sé rétturinn, sem útlendingurinn hefir lagt beiðni sína fyrir, fyllilega sannfærður um, að hann hafi gjört yfirlýsing um fyrirætlun sína að gjörast

borgari tveim árum áður en hann sækir um að fá hin síðustu skjöl, og að hann hafi haft heimilisfang innan Bandaríkjanna að minsta kosti í fimm ár samfleytt, og í því ríki eða fylki, þar sem rétturinn er þá haldinn, að minsta kosti eitt ár; og að hann á þessum tíma „hafi hegðað sér eins og góður og siðsamur maður, sem ant sé um meginatriðin í stjórnarskrá Bandaríkjanna og láti sér umhugað um góða félagsskipun og vellíðun í landinu“, verða honum veitt þegnréttindi.

*Aðalstign.*

Hafi umsækjandi borið nokkurn titil að erfðum eða nokkura aðalstign, verður hann að hafna slíku ótvíræðilega um leið og hann ber umsókn sína fram.

*Hermenn.*

Hver útlendingur tuttugu og eins árs gamall eða eldri, sem verið hefir í her Bandaríkjanna og leystur hefir verið frá herþjónustu með heiðri, getur orðið borgari með því að eins að sækja um það, án þess að hafa áður gjört nokkura yfirlýsing um fyrirætlan sína, svo framarlega sem hann hefir átt heimilisfang í Bandaríkjunum um eitt ár áður hann kemur fram með umsókn sína og sé góður og siðsamur maður. (Dómsúrskurður hefir tekið fram, að eins árs heimilisfang í einhverju sérstöku ríki sé ekki skilyrði).

*Ómyndugir.*

Hver útlendingur fyrir innan tuttugu og eins árs aldur, sem haft hefir heimilsfang í Bandaríkjunum um þrjú ár áður en hann náði þeim aldri og haldið dvöl sinni þar áfram þangað til hann sækir um að öðlast þar þegnréttindi, getur, þegar hann er orðinn tuttugu og eins árs og þegar hann hefir haft heimilsfang í Bandaríkjunum um fimm ár, að þeim þrem árum meðtöldum, er hann var ómyndugur, öðlast þegnréttindi; en yfirlýsing verður hann að

gjöra og vinna eið að og sanna fullkomlega fyrir réttinum, að um tvö næst undanfarin ár hafi það *bona fide* verið fyriræltan hans, að gjörast borgari.

*Börn þeirra, er öðlast þegnréttindi.*

Börn þeirra manna, sem á löglegan hátt hafa öðlast þegnréttindi og eru ekki tuttugu og eins árs gömul, þegar foreldrar þeirra verða borgarar, skulu álitin borgarar Bandaríkjanna, ef þau hafa þar heimilisfang.

*Börn borgara, sem fæðast erlendis.*

Börn þeirra manna, sem nú eru og hafa verið borgarar Bandaríkjanna, eru álitin borgarar, þó þau hafi fæðst fyrir utan takmörk og lögsagnarumdæmi Bandaríkjanna.

*Kínverjar.*

Að Kínverjar fái að öðlast þegnréttindi er ótvíræðilega bannað í 14. grein, 126. kapítula laganna frá árinu 1882.

*Verndun þeirra manna erlendis, sem öðlast hafa þegnréttindi.*

Grein 2000 í endurskoðuðum lögum Bandaríkjanna lýsir yfir því, „að allir þeir, er öðlast hafi þegnrett ndi í Bandarkjunum, eiga tilkall til,meðan þeir dvelja erlendis, og skulu öðlast frá stjórn þessari sömu verndun fyrir persónur sínar og eignir, og veitt er innfæddum borgurum.“

*Atkvæðisréttur.*

Atkvæðisrétturinn er frá ríkinu runninn og er því gjöf frá ríkinu. Veiting þegnréttinda er á valdi ríkjasambandsins og er gjöf frá Bandaríkjunum, ekki frá neinu einu ríki. Í nærri því helmingi Bandaríkjanna greiða útlendingar (sem gjört hafa yfirlýsing um fyriræltun sína) atkvæði og hafa rétt til að greiða atkvæði með þeim, er öðlast hafa fullkomin þegnréttindi eða eru innfæddir borgarar. Í hinum helmingi ríkjanna mega einungis sannir

borgarar greiða atkvæði. Lög sambandsríkjanna um veiting þegnréttinda ná jafnt yfir öll Bandaríkin og segja svo fyrir, að enginn útlendingur geti öðlast þegnréttindi fyrr en eftir fimm ára dvöl. Jafnvel eftir fimm ára dvöl og löglega veiting þegnréttinda á hann ekki tilkall til að greiða atkvæði nema lög ríkisins veiti honum þau einkaréttindi, og í sumum ríkjunum má hann greiða atkvæði sex mánuðum eftir að hann stígur á land, hafi hann gjört yfirlýsing um áform sitt að gjörast borgari samkvæmt lögum Bandaríkjanna.

---

## Lög um heimilisréttarlönd í Bandaríkjunum.

Lög þessi heimila hverjum borgara og öllum sem gjört hafa yfirlýsing um, að þeir ætli sér að gjörast borgarar, rétt til að taka sér bólfestu þar sem land hefir mælt verið, á fjórðungsspildu eða 160 ekrum; eða hálfri fjórðungsspildu, eða 80 ekrum; hið fyrra á sér stað þar sem lönd eru í lægra verði, sem ákveðið er með lögum, 1 dollar og 25 cents fyrir hverja ekru; hið síðara þar sem lönd eru í hærra verði, sem lögákveðið er 2 dollarar og 50 cents fyrir hverja ekru, þegar löndin eru seld þeim, er kaupa fyrir peninga. Þau einkaréttindi að eiga forkaupsrétt til lands eru bundin við familíufeður, ekkjur eða einhleypt fólk, sem er eldra en 21 árs.

Hver hermaður og foringi í hernum, sjómaður, sjóliðsdáti og foringi í sjóhernum, sem tók þátt í uppreistarstríðinu, má rita sig fyrir 160 ekrum lands í öðrum hvorum flokki, og skal sú tímalengd, er

hann hefir þjónað í hernum eða sjóliðinu, dreginn frá þeim tíma, sem heimtað er að líði áður hann fær fullkominn eignarrétt.

---

# Landmæling.

1. *Saga*...Mönnum kemur saman um, að þeir *Thomas Jefferson* og *Albert Gallatin* séu höfundar landmælinganna í Norður-Ameríku.

2. *Hreppar*. Landinu er fyrst skift niður í ferhyrninga með línum, sem dregnar eru með sex mílna millibili. Ferhyrningar þessir eru nefndir hreppar *(townships)*, og hrepparöð, er liggur frá suðri til norðurs, er kölluð *range*. Hreppunum eru gefin eiginnöfn, en til að ákveða legu þeirra, eru þeir táknaðir með tölum.

3. *Helztu hádegisbaugar og undirstöðulínur.*—Landmælingamennirnir velja fyrst einhvern merkisstað eða depil, draga beina línu norður og suður gegnum þann depil og mynda það, sem kallað er *helzta hádegisbaug*. Þá draga þeir línu beint yfir helzta hádegisbauginn og mynda það sem kallað er *undirstöðulínur*. Merki eru sett á báðum þessum línum eins langt og þær ná með hálfrar mílu millibili.

A

7 6 5 E 4 3 2

C 7 6 5 4 3 2 1 1 2 3 4 5 6 7 D

1 2 3 4 F 5 6 7

B

*Skýring.*—A, B, sama sem helzti hádegisbaugur. C. D, sama sem undirstöðulína. Tölurnar á A, B línunni tákna hreppalínur, og tölurnar á C, D línunni tákna *range*-línur (eða hrepparaðir).

Hrepparaðalínurnar eru lagðar norður og suður með sex mílna millibili beggja megin við helzta hádegisbaug; eru þær táknaðar með tölum eins og myndin sýnir. Hreppalínur eru lagðar með sex mílna millibili meðfram undirstöðulínunni eins og sýnt er hér að ofan.

*Dæmi.* E er í 5. hrepparöð, að vestan verðu, og í 4. hrepp að norðan verðu, eða 30 mílur í vestur frá helzta hádegisb. og 24 míl. fyrir norðan und-

irstöðulínu (hver ferhyrningur táknar hrepp, sex mílur á hvern veg). F er í 4. hrepparöð að austanverðu og í 4. hrepp að sunnanverðu, eða 24 mílur austur af helzta hádegisbaug, og 18 mílur suður af undirstöðulínunni.

---

## Landnám.

**Hvernig lega lands skal ákveðin, hvernig landi skal lýst og hvernig lesa skuli úr lýsingum.**

Hver hreppur (*township*) er 36 ferhyrningsspildur (*sections*); er hver þeirra ein míla í hvert horn. Hver spilda er 640 ekrur. Fjórðungur spildu er ferhyrningur, hálf míla á hvern veg, en 160 ekrur. Áttungur spildu er hálf míla á lengd, frá norðri til suðurs, og fjórðungur mílu á breidd, en 80 ekrur. Sextándi hluti spildu er ferhyrningur, fjórðung mílu á hvern veg, en 40 ekrur.

NORÐUR

VESTUR

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| 6 | 5 | 4 | 3 | 2 | 1 |
| 7 | 8 | 9 | 10 | 11 | 12 |
| 18 | 17 | 16 | 15 | 14 | 13 |
| 19 | 20 | 21 | 22 | 23 | 24 |
| 30 | 29 | 28 | 27 | 26 | 25 |
| 31 | 32 | 33 | 34 | 35 | 36 |

AUSTUR

SUÐUR

Hreppur með spildulínum.

1. Landmæling Kanada og Bandaríkjanna endar með fastákveðnum spildulínum. Samt eru merki, sem gjörð eru af landmælingamönnum, rekin niður á spilduhornum, og einnig merki með hálfrar mílu millibili miðja vega milli hornanna. Með þessum merkjum má fullvissa sig nákvæmlega um legu hvers landsskika.

2. Land er vanalega keypt og selt í smáspildum, 40 ekrur, eða 80 ekrur, eða 120 ekrur, eða 160 ekrur o: s. frv.

640 Ekrur.

A B

C D

Z X Y

Sec. 25.

*Dæmi.* Ef spildurnar A, B, C og D eru teknar saman, eru þær einn fjórðungur heillar spildu (section) og þeim er lýst þannig N. V. ¼, 25. spildu. (N. W. ¼ of N. W. ¼ of Sec. 25).

A. er lýst svo: N .V. ¼ af N. V. ¼ af 25. spildu. (N. W. ¼ of N. W. ¼ of Sec. 25).

C, D. er lýst svo: S. ½ af N. V. ¼ af 25. spildu. (S. ½ of N. W. ¼ of Sec. 25).

X, Y er lýst svo: N. ½ af S.Au. ¼ af 25. spildu. (N. ½ of S. E. ¼ of Sec. 25).

*Z* er lýst svo: N. Au. ¼ af S. V. ¼ af 25. spildu. (N. E. ¼ of S. W. ¼ of Sec. 25).

## Hvernig rita skal erfðaskrár.

*Gerið erfðaskrá yðar snemma á æfinni — þér vitið ekki hvað morgundagurinn hefir í skauti sér.*

Sérhver sá, sem fjölskyldu hefir fyrir að sjá, ætti að búa til erfðaskrá. Hvað litlar sem eignir hans eru, hvað ólíklegt sem það er að dauða hans beri brátt að höndum, eða hvað viss er hann þykist vera um það að eignir hans falli í þeirra skaut,sem hann vill að njóti þeirra, þá er það skylda hans að búa til erfðaskrá, til þess að tryggja þeim, sem hann ann, eigna sinna, því ekkert er vissara en víst. Það er líka rétt að tilnefna einhverja þá, er hann hefir góða ástæðu til að treysta, að sjá um að vilja hans verði framgengt í þessu efni. Sé þessa ekki gætt eða sé því slegið á frest, getur vel komið fyrir að þeir, sem maður hefir alla æfi barist fyrir og þráð að líði sem bezt, njóti ekki þess sem maður hefir aflað. Þá getur komið fyrir að ekkjan verði þess vör, að mikill hluti eignanna, hverju nafni sem þær nefnast, eigi að hverfa til frændfólks mannsins hennar, og hlýtur hún þá að fyllast réttlátri gremju, eða þá að elzti sonur noti sér afstöðu sína í fjölskyldunni til að ræna yngri systkin sín því, sem þeim ber af eignum föður þeirra, eða þá aðra réttmæta erfingja. Mörg eru þess dæmi, að þessi hróplega vanræksla hefir orðið glæpur frá siðferðislegu sjónarmiði, þar sem afleiðingin hefir orðið sú, að þeir hafa ræntir verið vernd og virðingu, sem fyrsta tilkall áttu til hvorutveggja.

Það er alls ekki nauðsynlegt að hafa mála-

færslumann við að búa til erfðaskrár, þó það sé ætíð hjálp, sérstaklega þegar skilyrðin eru flókin sem arfleiðandi setur, svo sem þegar hann tiltekur vissa upphæð eða upphæðir, sem konunni skuli borgast árlega, þangað til ef hún giftir sig aftur, og þegar hún deyi, eða giftist, skuli skifta eignunum jafnt milli barnanna. Það þarf lögfræðing til að búa til margbrotna samninga eða erfðaskrár. Sé ekki málafærslumaður fenginn, ætti að hugsa út erfðaskrána vel og vandlega, en ekki kasta að því höndunum, sem einhverju ómerkilegu. Það er ekki fyrr en maðurinn er dáinn og getur ekki látið í ljós hvað hann hefir meint, að á það reynir, að frá erfðaskránni sé vel gengið, að hún ekki verði hrakin. Það er því nauðsynlegt að ótvírætt sé látið í ljós hvað við sé átt og rita ekkert það, er skilist geti á tvo vegu.

---

## Lög um erfðaskrár í Kanada.

1. Allar manneskjur með fullu viti, sem hafa náð lögaldri, og eigi eru háðar yfirráðum annarra, mega útbúa erfðaskrá, er útnefni eigur þeirra hverjum sem þeir vilja.

2. Lögaldur bæði kvenna og karla miðast við 21 árs aldur.

3. Allar erfðaskrár skulu vera skriflegar.

4. Það er ekki nauðsynlegt að erfðaskrá sé útbúin á neinn sérstakan hátt, til þess að vera gildandi samkvæmt lögum.

5. Sá sem gjörir erfðaskrá sína er kallaður arfleiðandi (testator, testratrix).

6. Deyi einhver svo að hann ekki láti eftir sig erfðaskrá, skulu eignir hans afhentar verða skiftarétti þess fylkis, sem eignir hans eru í. Skiftarétt-

urinn útnefnir svo umsjónarmann (administrator) eignanna til umsjónar og skiftingar.

Erfðaskrár eru vanalega innsiglaðar með inninnsigli arfleiðanda. Það er þó eigi naðsynlegt.

7. Erfðaskrá kemur ekki í gildi fyrr en sá er dáinn, er útbjó hana.

8. Séu margar erfðaskrár samdar af sama manni, er að eins hin síðasta þeirra gildandi.

9. Gift kona á ætíð fullkominn rétt til heimanmundar síns og séreigna hversu svo sem erfðaskrá er útbúin. Sé það að vilja beggja málsparta, getur hún skift þeim eignum fyrir aðrar, en það verður að takast fram í erfðaskránni, annars getur svo farið að henni beri hvortveggja eignirnar.

10. Giftist arfleiðandi, er sú erfðaskrá ógild er áður var gerð.

11. Útfararkostnaður og skuldir arfleiðanda skulu ætíð fyrst borgaðar af óskiftu fé.

12. Erfðaskrá, rituð með ritblýi, er gildandi.

13. Erfðaskrár skulu vera undirritaðar af tveimur vitnum og arfleiðanda, sem riti nöfn sín að þeim öllum viðstöddum.

14. Arfleiðandi má sjálfur tilnefna mann (executor) til að ráðstafa eigum sínum samkvæmt erfðaskrá. Sé hann lagalega fær um að gegna þeim starfa, staðfestir skiftarétturinn þá útnefningu. Sá sem þannig er tilnefndur þarf þó ekki að taka við því verki frekar en honum lízt.

15. Það er ekki nauðsynlegt að vitnin séu kunn innihaldi erfðaskránna. Það nægir að arfleiðandi kunngjörir þeim, að þetta sé erfðaskrá sín. undrriti í nærveru þeirra og biðji þá að skrifa nöfn sín sem vitni. Arfleiðandi og vitni ættu ætíð að sjá hver annan undirrita erfðaskrána.

16. Arfleiðandi skal ætíð rita fult nafn sitt. Geti hann það ekki, skal einhver annar stjórna

hendi hans meðan hann ritar það, eða setja merki við nafnið. Þetta er vanalega gert þannig:

merki
John X Smith.
hans.

17. Þeir sem ráðstafa eiga eignum dáins manns (executors), verða fyrst að sanna að erfðaskráin sé gild, og vera útnefndir til þess starfa af skiftarétti þeirrar sveitar, sem hinn dáni bjó síðast í.

18. Erfðaskrá, sem arfleiðandi ritar að öllu leyti (holograph), og undirritar, er gildandi í Manitoba, þó engin vitni séu við.

19. Umboðsmenn dánarbúa skulu hafa ársfrest til að innheimta skuldir, og borga. Að þeim tíma liðnum geta erfingjar krafist síns hluta. Þó ætti ætíð að hraða þeim verkum sem hægt er.

20. Þeir (umboðsmenn) skulu halda glöggan reikning yfir alt, sem dánarbúi tilheyrir, annars eru þeir ábyrgðarfullir fyrir eignatapi ef nokkurt er. Það er ekki löglegt að veita vitnum nokkurn hluta eignanna, eða fjölskyldum þeirra.

21. Viðauka (codicil) má gera við erfðaskrá og er þá sá viðauki háður sömu lögum og erfðaskráin sjálf.

22. Sé vitnum ánafnaður nokkur hluti eignanna í erfðaskránni, er sá partur hennar vanalega dæmdur ógildur.

*„Form“ vanalegrar erfðaskrár.*

Eg, A. B. í ——— (þorpi, bæ, pósthúsi o. s. frv.) kaupmaður (eða önnur staða), hafandi sálarkrafta mína óskerta, gjöri hér með eftirfylgjandi erfðaskrá, og ónýti hér með hverja þá erfðaskrá, sem eg áður hefi samið.

Eg skipa bróður minn C. D., og tengdason minn E. F. ráðstafendur eigna minna.

Eg býð þeim að borga allar réttmætar skuldir

og útfararkostnað minn, eins fljótt og hægt er eftir dánardag minn.

Eg gef konu minni R. B ———— dollara, sem komi í stað tilkalls hennar til séreigna eða sérstaks arfs.

Eg veiti hér með hús mitt og fasteign í ——— konu minni, R. B., svo lengi sem hún lifir, þar eftir er sú fasteign eign sonar míns P. B. Eg gef syni mínum B. P. og dóttur minni M., konu E. F., allar aðrar eignir mínar, sem skulu skiftast jafnt á milli þeirra.

Þessu til staðfestingar undirrita eg þessa erfðaskrá hinn —— dag ——— mánaðar 19——

Undirritað A. B.

*Stutt erfðaskrá.*

Þetta er síðasta ráðstöfun og erfðaskrá Jóns Jónssonar bónda til heimilis á Klöpp í Gimli County. Eg gef, ráðstafa og ánefni allar eigur mínar í löndum og lausum aurum af hverri tegund, sem vera skal, og hvar sem þær eru niður komnar, eiginkonu minni, Bergljótu Jónsson, erfingjum hennar og umboðsmönnum, skilyrðislaust og ávalt og tilnefni eg hana hér með sem einka skiftaráðanda samkvæmt þessari erfðaskrá minni. Eg afturkalla hérmeð allar aðrar erfðaskrár og ráðstafanir, sem eg hefi áður gjört. Til vitnis um þetta set eg eiginhandar nafn mitt 24. maí 1905.

| | |
|---|---|
| Undirritað og innsiglað, opinberað og yfirlýst af ofannefndum Jóni Jónssyni eins og síðasta erfðaskrá og ráðstöfun í nærveru vor viðstaddra á sama tíma, sem eftir ósk hans, í nærveru hans, og í nærveru hvers annars, ritum nöfn vor hér undir sem vitni að löglegri samningu erfðaskrár þessarar<br>Áki Sæmundsson, Gimli, trésmiður.<br>Hróbjartur Arason, Sandy Bar, bóndi. | Jón Jónsson. |

## Réttindi giftra kvenna til eigna.

---

Eftir gömlum lögum höfðu giftar konur fremur fá réttindi. Þær urðu að lúta vilja bænda sinna, enda gátu þeir öllu ráðið, en þessi gamla löggjöf hefir miklum stakkaskiftum tekið og eru nú réttindi giftra kvenna viðurkend af öllum dómstólum.

1. Allar eignir konu áður hún giftist eða það, sem hún kann að hafa veitt viðtöku síðan og hefir undir höndum sem séreign sína, getur hún selt eða fengið öðrum án samþykkis bónda síns.

2. Vanræki kvongaður maður að veita konu sinni sómasamlega forsjá, munu lögin þrýsta honum til að veita henni fullkomna forsjá, ef hann hefir til þess nóg efni.

3. Konan verður að veita manni sínum forsjá af séreign sinni, ef hann hefir engin efni eða getur ekki séð um sig sjálfur.

4. Ekki má taka kaup konunnar til að borga með skuldir manns hennar.

5. Séreign konunnar má ekki taka til að borga með skuldir manns hennar.

6. Eignir eiginmanns á undan hjónabandi, eða það sem honum hefir hlotnast sem gjöf eða arfur í hjónabandi, er hans séreign; kona hans á samt sem áður heimanmund í fasteign hans.

7. Yfirgefi kona mann sinn getur hún ekki neytt hann til umsjár, nema fullar ástæður hafi verið til þess, að hún færi frá honum, eða hún bjóðist til að hverfa til hans aftur.

8. Vinnulaun konu og ómyndugra barna hennar eru séreign konunar, eftir að hún hefir yfirgefið mann sinn.

9. Ef eiginmaður eða kona láta af hendi fast-

eign, verða bæði að rita nöfn sín undir afsalsbréf, veðbréf eða samning.

10. Í Manitoba-fylki má ekki krefjast heimanmundar fyrr en að eiginmanni látnum.

11. Þegar maður og kona skilja, án þess konan sé fær um að sjá fyrir sér, má hún taka út í reikning manns síns fyrir lífsnauðsynjar.

---

## Lög um vinnusamninga.

1. Bezt er ætíð að hafa skriflega samninga, þó munnlegir samningar gildi til eins árs en ekki lengur.

2. Eigi þurfa málsaðilar að gefa nokkura viðvörun, þó þeir ætli sér að hætta samvinnu, er tími sá er útrunninn, er umsaminn var.

3. Eigi er hægt að neyða vinnumann til að standa við samninga, en hægt er lagalega að krefjast skaðabóta af honum fyrir samningsrof.

4. Eigi er hægt að heimta af verkgefanda að hann veiti vinnu um umsaminn tíma, en hægt er að krefjast kaups af honum fyrir þann tíma, sem samið var um.

5. Þegar enginn sérstakur tími er tiltekinn í vinnusamningi, verður að gefa aðvaranir fyrirfram, sem svarar eftirfylgjandi tíma:

a) Þegar kaup er borgað daglega, 1 dags tilkynning.

b) Þegar kaup er borgað vikulega, 1 viku tilkynning.

c) Þegar kaup er borgað mánaðarlega ,1 mánaðar tilkynning.

d) Þegar kaup er borgað árlega, 3 mánaða tilkynning.

Bezt er að gefa skriflega tilkynningu þó hitt dugi.

Hver samningsaðili sem er má brjóta vinnusamning hvenær sem er, en þá tapar hann þeim peningum, sem eftir eru af kaupi til þess tíma sem samið var um.

6. Samt þarf enga fyrirfram tilkynningu, og ekki þarf að borga neitt kaup fyrir það, sem unnið er, ef verkamaður gerir sig sekan í eftirfylgjandi atriðum:

(1) Óhlýðni, svo lengi sem skipanirnar eru lögum samkvæmar.

(2.) Vanrækslu við verk.

(3) Ósiðferðislegri framkomu, ef mikið kveður að henni.

(4.) Ef vinnumaður kann ekki verk sitt, eða er um lengri tíma burtu frá vinnu vegna veikinda. Fyrir veikindi um stutt tímabil er ekki hægt að reka vinnumann.

7. Verkamaður hefir ástæðu til að hætta vinnu, ef honum hefir verið skipað eitthvað ólöglegt, eða eitthvað mjög hættulegt fyrir hann. Segi vinnumaður húsbónda sínum frá að vél, er hann notar við vinnu, sé hættulegt verkfæri, en sé samt skipað að halda áfram, og verði svo slys, er hægt að heimta að verkgefandi borgi skaðabætur, en ekki er það hægt, ef verkamaður gjörði ekki verkstjóra vitanlegt, að hætta væri á ferðinni.

---

## Bújarðalög.

(Laga-molar þessir gilda í öllum Kanadafylkjum nema í Quebec).

Í afsalsbréfum fyrir landi, sem notað er til búnaðar, þarf að tiltaka takmörk þess nákvæmlega.

Spurningunni: Hvað kaupir bóndinn? er svarað með lýsingu takmarka jarðarinnar, og afsalsbréf fyrir bújörð (farm) innibindur ætíð eða nær yfir öll íbúðarhús, fjós, hesthús, hlöður og aðrar umbætur á jörðinni, sem sá, er selur, átti, þrátt fyrir að þeirra er ekki getið í afsalsbréfinu. Þar með fylgja og allar standandi girðingar á jörðinni; en sumir kynnu að ímynda sér, að salan næði ekki yfir alt girðingaefni, uppistandara, langslár o. s. frv., sem hefir nokkuru sinni verið notað í girðingum á jörðinni en sem rifið hefir verið niður og lagt til hliðar til að nota það á sama stað síðar,en þetta er þó svo. En nýtt girðingaefni, sem nýbúið er að kaupa og aldrei hefir verið fest við jarðveginn, fylgir ekki með í kaupinu. Humla-staurar, sem teknir hafa verið upp og lagðir til hliðar,fylgja með í kaupinu, ef þeir hafa einu sinni verið notaðir á jörðinni og aftur hefir átt að brúka þá þar, en laus borð og spírur, sem bara hafa verið lagðar á bita í hlöðu eða öðrum húsum, en aldrei negldar niður, fylgja ekki með í kaupinu, og seljandi jarðarinnar má flytja þetta burtu ef hann vill. Standandi tré öll fylgja auðvitað með í kaupinu sem partur af jörðinni og einnig tré, sem fokið hafa niður eða hafa verið feld, en ekki flutt burt af þeim bletti, er þau stóðu á, en sé búið að höggva þau í búta og hlaða upp sem brenni til sölu, þá fylgja þau ekki með í kaupinu, því að þá er viðurinn orðinn að lausafé (personal property).

Ef nokkur áburður er við fjós eða hesthús, eða í haug úti á ökrum, í því ástandi, að hægt sé að nota hann þegar, má kaupandi taka áburðinn sem tilheyrandi jörðinni, ef ekkert er í sölusamningum í gagnstæða átt, þó vafi geti verð um þetta, ef fyrverandi eigandi hefði áður selt öðrum áburðinn og í því skyni sett hann saman í haug út

af fyrir sig, því það kynni að álítast, að með því væri búið að fráskilja hann jörðinni, sem seld er, og á þann hátt breyta fasteign í lausafé, og á sama hátt gæti jafnvel leiguliði á jörð flutt burtu áburð, sem fallið hefði til meðan hann bjó á jörðinni sem leiguliði.

Korn eða annað, sem er að vaxa á jörðinni, þegar sala fer fram, fylgir og með í kaupinu, nema það sé sérstaklega tekið fram í sölusamningunum að það fylgi ekki, og þegar ekki er ætlast til, að slíkt fylgi með í kaupinu, þá er bezt að taka það fram í sjálfu afsalsbréfinu; munnlegur samningur um, að vaxandi korn o.s.frv. fylgi ekki með í kaupinu, gildir ekki, þegar til laga kæmi. Önnur aðferð til þess að bjarga við þessu atriði er sú, að taka fram í afsalsbréfinu, að jörðin afhendist ekki fyrr en á einhverjum tilteknum tíma seinna, og á meðan má fyrverandi eigandi flytja burt uppskeru og áburð.

Vegi, sem liggja meðfram takmörkum jarða, á eigandi hálfa, nema öðruvísi sé ákveðið í afsalsbréfunum, sem veita eignarréttinn, eða svo sé ákveðið í lögum, að vegirnir séu eign krúnunnar eða sveitarfélagsins. En eignarréttur landeigenda á vegastæðum eða vegum nær ekki lengra en svo, að almenningur hefir rétt til að nota þá hindrunarlaust til umferðar.

Ef tré standa þannig á jörð einhvers, að partur af þeim er uppi yfir landi nábúa hans, þá má nábúinn höggva burt þann hluta trjánna, sem er upp yfir landi hans, því að hann á landið og alt, sem er uppi yfir því og undir því. Ef um ávaxtatré er að ræða,þá má nábúi höggva af allar greinar og kvisti, sem eru yfir landi hans, en hann má ekki snerta ávextina, sem detta af trjám, er vaxa á landi annars manns. Eigandi trjánna hefir rétt til að

fara í friði yfir á land nábúa síns og taka greinar þær, sem höggnar eru af trjám hans, og ávextina, sem af þeim falla á land annars manns.

---

## Eignir undanþegnar fjárnámi í Manitoba.

1. Rúmstæði og sængurföt til heimilisþarfa og húsbúnaður, er ekki nemi meira en $500 virði.

(Þessi undanþága gildir ekki, þegar tilkall er gjört eftir ógoldnu kaupgjaldi).

2. Nauðsynlegur fatnaður og vanalegur handa þeim, er skuldar, og fjölskyldu hans .

3. Tólf bindi bóka, bækur, sem nauðsynlegar eru embætti hans, 1 exi, 1 sög,, 1 byssa, 6 gildrur.

4. Vistir til nauðsynja þeim, er skuldar og fjölskyldu hans til ellefu mánaða, ef hann hefir þær undir höndum.

5. Þrír hestar, múlasnar eða yxn, 6 kýr, 10 kindur, 10 svín, 50 alifuglar og fóður handa þessu í ellefu mánuði. Hestana verður sá, er skuldar, að nota sér til lífsframfærslu.

6. Verkfæri, akuryrkjuáhöld og aðrar nauðsynjar, er skuldari þarf á að halda til að reka sýslu sína, alt að $500 virði.

7. Muni, sem nauðsynlegir eru til að rækja helgar athafnir.

8. Jörð sú, er skuldari býr á eða yrkir eða notar til hagagöngu eða annarra afnota, svo framarlega hún sé ekki stærri en 160 ekrur.

9. Íbúðarhús, fjós, hlöður og girðingar á bújörð skuldara.

10. Alt nauðsynlegt útsæði í 80 ekrur.

11. Íbúðarhús skuldara, sé hann ekki bóndi, svo framarlega verðgildi þess sé ekki yfir $1,500.

12. Sumar af undanþágum þessum eru gjörðar í viðbót við undanþágur, er áttu sér stað fyrir 1. marz 1894, og eru þessar viðbótar-undanþágur ekki í gildi, að því er snertir skuldir, skuldbindingar og kvaðir, er fallnar voru í gjalddaga eða í þann veginn fyrir 1. marz 1894.

13. Sérhver samningur, sem gjörður er eftir 1. marz 1894 til ónýtingar eða uppgjafar undanþágu frá lögtaki eða hagsmunir, einkaréttindi eða tilkall til undanþágu frá lögtaki samkvæmt undanþágulögum frá 1894, eða nokkurs konar samkomulag, samningur eða kaup, munnleg eða skrifleg, með innsigli eða án, sem gjört er eftir 1. marz 1894, fyrir eða án endurgjalds, þar sem tilraun er gjörð til að svipta nokkurn mann kröfu-rétti til hagsmuna, einkaréttinda eða tilkalls til undanþágu samkvæmt lögum þessum — alt þess háttar skal dautt vera og marklaust.

Eignir, sem undan eru þegnar fjárnámi með undanþágulögum, má ekki taka lögtaki.

---

## Undanþágulög í Norðvesturhéruðunum.

1. Nauðsynlegur fatnaður og venjulegur handa skuldara og fjölskyldu hans.

2. Húsbúnaður og búsáhöld alt að $500 virði.

3. Nauðsynlegur vistaforði handa skuldara og fjölskyldu hans í sex mánuði.

4. Tvær kýr, 2 yxn og 1 hestur (eða þrír hestar eða múlasnar), 16 sauðkindur, 2 svín, auk dýra, sem alin eru til niðurlags, og fóður handa þeim frá nóvembermánuði til aprílmánaðar.

5. Aktýgi á þrjú vinnudýr, 1 vagn eða tvær

kerrur, 1 sláttuvél eða orf og ljár, 1 þungur plógur, 1 léttur plógur, 1 herfi, 1 hesthrífa, 1 saumavél, 1 kornskurðarvél.

6. Bækur embættismanns.

7. Áhöld og nauðsynjar handa skuldara til að reka iðn eða emæbtti.

8. Útsæði, korn nægilegt í alla þá jörð, er hann yrkir, upp að 80 ekrum og 14 *bushel* af jarðeplum.

9. Heimilisréttarjörð skuldara alt að 160 ekrum.

10. Hús og byggingar, sem búið er í af skuldara, og lóð sú, er þær standa á, alt að $1,500 virði.

---

## Lög um sölu og afhending eigna.

1. Sala er að láta eign af hendi fyrir peninga, sem goldnir eru annað hvort um leið eða eiga að gjaldast síðar.

2. Það eru mörg vandasöm atriði, er snerta sölu eigna og hver hugsandi maður ætti að öðlast fullkominn skilning á.

3. Það, sem selt er, verður að vera til þegar salan fer fram, eða það verður að vera fullkomin ástæða til að ætla að það verði eign seljanda. Til dæmis: Selji maður hest fyrir 100 dollara og það kemur upp, að hesturinn hafi drepist áður en salan fór fram, er sú athöfn ekki sala, þótt hún væri það að öðrum kosti.

4. Korn eða sáðtegundir, sem ekki hefir sáð verið, er hægt að selja, því eigandinn hefir ástæðu til að eiga von á uppskeru. Vélar og tilbúnar vörur áður en þær eru fyrir hendi er hægt að selja og er hægt að láta seljanda fullnægja samningi að sínum hluta eins og þó munir þessir hefðu til verið., þegar salan fór fram.

5. Það, sem selt er verður að vera nákvæmlega tiltekið og tekið frá sem eign kaupanda. Til dæmis: Tíu skeppur hveitis úr einhverjum bing eru ekki seldar nema því að eins að kornið hafi verið mælt og tekið frá.

6. Söluverðið verður að vera ákveðið með samþykki beggja eða tilskilið með ákvæðum sölunnar.

7. Gallar, sem hægt er að sjá á eignum og gripum við sölu, leysa ekki kaupanda frá þeirri skyldu að fullnægja samningi, þó hann staðhæfi, að hann hafi ekki gætt gallanna. Lögin fá þeim ekki augu, sem eignir kaupa. *Caveat emptor*—kaupandi skyldi varasamur vera.

8. En gallar á eignum eða gripum, sem ekki er unt að sjá og seljandi gefur enga bendingu um, en mælir með sem góðu og ógölluðu, leysa kaupanda frá fullnæging samningsins að sínu leyti.

9. Þegar ekkert er sagt um borgunartíma um leið og sala fer fram, er litið svo á frá lagalegu sjónarmiði, að eignin verði að borgast, áður kaupandi tekur við henni. Hljóði samningar upp á lán, má kaupandi þegar taka við henni .

10. Til þess kaup standi, skyldi kaupandi ávalt greiða dálitla upphæð fyrir fram, til að binda seljanda við kaup sín.

---

## Lög um opnun bréfa.

---

Hver sá, er ólöglega opnar bréf eða heldur því af ásettu ráði eða tefur afhending þess, eða leyfir öðrum að gjöra það, hvort sem bréfið hefir fundist eða ekki, hefir gjört sig sekan um misgjörð og sætir það hegningu, fangelsi eða hvorttveggja.

---

## Trúlofanir eða hjónabandssamningar.

---

1. *Samningar um gifting í ókominni tíð.* — Sameiginleg loforð manns og konu um að giftast í ókominni tíð er löglegur smningur.

2. *Giftingarsamningur.*— Gifting er borgarlegur samningur og er samþykki beggja hlutaðeigenda nóg til að gjöra hann gildan. Segi maður til konu: „Viltu eiga mig?" eða eitthvað í þá átt, og hún segi „já" eða viðhafi einhver jákvæð svör, þá er það samningur eða loforð um gifting að lögum og eru hlutaðeigendur báðir löglega skyldir til að halda þann samning trúlega og fullnægja honum.

3. *Trygðrof.* — Neiti annarhvor hlutaðeiganda að fullnægja samningnum, gjörir hann eða hún sig sek um trygðarof og getur þá sá málsparturinn orðið sekur um skaðabætur til hins. Samt sem áður kemur það ekki sérlega oft fyrir, að maður höfði mál gegn konu, þótt rétt hafi hann til þess, ef hún stendur ekki við loforð sitt.

4. *Nausynlegar sannanir.*—Þegar málshöfðun kemur fyrir út af trygðarofi, eru vanalega engin bein vitni, þar sem fólk vanalega lofast hvert öðru án þess nokkurir séu við staddir, en hægt er að draga trúlofunina af háttalagi þess, er fyrir málsókn verður.

5. *Óbeinar sannanir.*—Trúlofun má draga af ástæðum, svo sem stöðugum heimsóknum, opinberum yfirlýsingum hlutaðeigenda og því, að foreldrar og vinir hafa veitt þeim viðtöku eins og trúlofuðum persónum, án þess nokkurar mótbárur hafi fram komið af hendi þess, er kærður er. — Með mörgu móti láta menn í ljós alvarlegar fyrirætlanir, án þess að gjöra opinberar yfirlýsingar með orðum. Háttalagið er ósjaldan mælskara en orðin.

6. *Afsakanir fyrir trygðarof.*—Neitun um gift-

ing má réttlæta með skemu mannorði eða breytni annarshvors; lélegt heilsufar getur stundum verið réttmæt afsökun, en er það þó ekki yfirleitt. Sé konan ekkja eða skilin frá manni, en hafi leynt því, er það réttmæt ástæða til neitunar um gifting af hans hálfu.

7. *Giftingartími.*—Þegar karlmaður lofar að giftast konu án þess að tiltaka nokkurn ákveðinn tíma, álíta lögin hann sekan um trygðarof, nema hann sé til þess búinn að fullnægja loforði sínu með hæfilega löngum fyrirvara; hafa fimm ár verið álitin óhæfilega langur fyrirvari að lögum.

8. *Ógild trúlofun.* — Þegar annarhvor málspartur er yngri en 21 árs, er ekki trúlofun hans eða hennar bindandi og munu lög leysa þau undan þeirri skyldu að halda loforð sitt. En sé maðurinn eldri en 21 árs, má halda loforðinu upp á hann og verður hann þá að halda það eða gjalda skaðabætur.

9. *Tæling.*—Að draga konu á tálar undir yfirskyni trúlofunar og neitun um gifting þar á eftir af hans hálfu, er glæpur, sem þung hegning liggur við, eins og fangelsi og sektir. Gifting eftir að málssókn er hafin og áður dómur hefir uppkveðinn verið, leysir sakborning frá frekari vanda.

10. *Óheiðarlegt athæfi.* — Ungur maður, sem trúlofast stúlku, eða gefur henni ástæðu til að ætla, að alvara sé í heimsóknum hans og framferði, gjörir sig sekan í óheiðarlegu athæfi, ef hann að ástæðulausu og upp úr þurru fer að sýna öðrum kvenmanni álíka atlot. Ekkert heiðarlegt ungmenni lætur sér það verða.

Enginn maður hefir rétt til að krefjast þess, að ung stúlka hafi félagsskap við hann einan, án þess að hafa gefið henni heitorð, og er það mjög óhyggilegt eða jafnvel heimskulegt af nokkurri

ungri stúlku að gefa sig við atlotum ungra manna, er engan annan karlmann þola nálægt, nema heitorð hafi í einlægni gefið verið. Þegar heitorð hefir eitt sinn unnið verið, ætti að halda það vandlega, nema báðum málspörtum komi saman um að rjúfa. Lögin heimta ávalt, að heitorð séu gefin af einlægum huga.

---

## Lög fyrir kaupendur blaða.

1. Engin ákvæði póstlaganna snerta kaup milli útgefanda og áskrifenda. Vanalegar samningsreglur eiga við öll viðskifti slíkra málsaðila, og hefir póststjórnin engar skyldur aðrar en þær að koma sendingunum til skila eða endursenda þær, ef svo verður fyrir mælt

2. Þegar útgefandi blaðs eða tímarits sendir blað sitt eða tímarit, verður póstafgreiðslumaður að afhenda það, ef sá, sem það er til, vill veita því viðtöku. Veiti hann því ekki viðtöku, verður póstafgreiðslumaður að láta útgefanda vita.

3. Útgefandi verður að innkalla andvirði á sama hátt og hverja aðra skuld.

4. Þegar einhver gjörist kaupandi blaðs eða tímarits árlangt, getur hann ekki hætt að veita því viðtöku áður árið er liðið, en við áramót getur hann hætt, hvort sem hann hefir borgað eða ekki.

5. Haldi útgefandi áfram að senda blaðið frá áramótum og áskrifandi veiti því viðtöku, er sendingin tilboð um kaup á blaðinu um annað ár fyrir sama verð, og það að blaðið er tekið út af póststofu er að þiggja það tilboð.

6. Hafi kaupandi með beinu eða óbeinu samþykki komist í skuld fyrir annan árgang, getur hann ekki meðan sá árgangur er að koma út neit-

að að taka blaðið, jafnvel ekki með því að borga alt, sem hann skuldar útgefanda.

7. Auglýsi útgefandi áskriftarskilmála, verða allir, sem við blaðinu taka með þeim skilmálum, að vera við þessa skilmála bundnir.

## Lög um týnda muni.

Árni er á gangi og finnur vasabók við veginn og er í henni nokkuð af peningum. Hann tekur hana upp, lítur eftir hvað í henni sé, lætur hana svo í vasa sinn, en það vill svo til, að gat er á vasanum og bókin dettur niður. Hann verður þess ekki var, að hún er horfin, fyrr en hann kemur heim. Hann fer þá aftur sömu leiðina og sér ungan mann hafa hana í höndum nærri staðnum, þar sem hann fann vasabókina. Sá ungi maður hafði tekið hana upp, þegar hún féll úr vasa þess, er fyrstur fann hana. Hver þeirra á nú bezt tilkall til vasabókarinnar og þess, sem hún hefir að geyma? Ungmennmennið hefir meiri rétt til hennar en Árni. „Sá, er síðast finnur, er bezti eigandinn,“ er býsna algeng regla.

## Hvernig nafn þess skal rita, sem ekki er ritfær.

Undirskrift þess, er sjálfur ekki kann að rita, skyldi ávalt gjörð í vitna viðurvist. Skyldi sá, sem vitni er að undirskriftinni, rita nafn sitt til vinstri handar. Nota skyldi þetta form:

merki
Jón X Sigurðsson.
hans.

Vitni: Valgerður Svalbarð.

## Ráðstafanir fyrir ekkjum og börnum.

Þegar maður lézt fyrr á tímum án þess að hafa gjört erfðaskrá sína, átti ekkja hans tilkall til eins þriðja hluta eigna hans og börnin hinna tveggja þriðju hluta; væru engin börn, tók ekkjan helming og næstu ættingjar hins látna hinn helminginn.

Síðan 1. júlí 1895 eru það lög í Kanada, að þegar einhver fellur frá án þess að hafa gjört erfðaskrá og barnlaus, en eigur hans ekki meira en $1,000 virði, ganga þær allar til ekkjunnar skilyrðis og undantekningarlaust. Þegar verðmæti eignanna eftir lúkning skulda og greftrunarkostnaðar er meira en $1,000, á ekkjan tilkall til $1,000 skilyrðislaust, með vöxtum,fjórum af hverju hundraði, frá dauða hins látna og þar að auk fær hún vanalegan skerf þess, sem umfram er eignanna.

## Eigin-víxlar.

(Promissory Notes).

**Leiðbeiningar um hvernig skuli rita, innheimta og nota eigin-víxla (promissory notes) í viðskiftalífinu.**

1. Eigin-víxlar (promissory notes) eru til mikilla þæginda í viðskiftalífinu. Á þessum tímum er mestur hluti viðskifta manna gjörður þannig, að loforð um verðmæti er tekið sem borgun. Það loforð, hvort heldur það er munnlegt eða skriflegt, er skoðað sem verðmæti, sem trygging fyrir borgun síðar. Eigin-víxlar eru því ómótmælanleg viðurkenning skuldar, og gjöra þannig viðskiftalífið auðveldara en ef alt hlyti að borgast út í hönd.

2. Eigin-víxill er skrifleg viðurkenning þess er hann ritar um það, að hann skuldi öðrum og lofist til að borga þá skuld eftir vissan tíma, eða þegar

þess er krafist, eftir því, sem fram er tekið í víxlinum.—Hver sem býr til eigin-víxil, lofar þannig að borga þá skuld þeim sem á hana hjá honum, eða einhverjum öðrum, eftir því sem sá ákveður, sem lánað hefir verðmæti það sem um er að ræða. Heimtað getur hann ábyrgðarmann *(endorser)*, sem (ef hann fæst) ritar nafn sitt á víxilinn til merkis um, að skuld þessi verði borguð. Svo getur og sá, er víxlinum veitir viðtöku, gjört, ef hann vill borga með honum skuldir til annarra. Geti ekki sá, er víxilinn samdi, borgað hann þegar hann fellur í gjalddaga, þá skal krefjast borgunar af ábyrgðarmönnunum, í þeirri röð sem nöfn þeirra eru rituð.

3. Eigin-víxlar eru stílaðir: *(a)* Sem loforð um að borga handhafa þeirra (bearer) vissa upphæð; *(b)* sem loforð um að borga hverjum sem skuldheimtumaður ákveður *(to order)*.

4. Eigi þarf að borga víxil, fyr en þremur dögum eftir þann tíma, sem á hann er ritaður sem gjalddagi.

5. Eigin-víxill *(a)* borgast þeim, sem hann hefir með höndum, þegar hann er fallinn í gjalddaga.

6. Það kemur oft fyrir að eigin-víxill, sem ölvaður maður hefir útbúið, er dæmdur ógildur.

7. Eftirfylgjandi atriði verða að vera tiltekin á hverjum eigin-víxli: *(a)* Ákveðinn gjalddagi; *(b)* hvort hann skuli borgast handhafa, eða megi notast í viðskiftum hverra sem er; *(c)* ákveðin upphæð; *(d)* að borgast skuli með peningum; *(e)* að hann lofi borgun skilyrðislaust.

8. Sé enginn tími tiltekinn, má hvenær sem vill krefjast þess, að eigin-víxill sé borgaður.

9. Undirritun með ritblýi er gild.

10. Allir ábyrgðarmenn víxils *(sbr. 2. gr.)* eru ábyrgðarfullir fyrir borgun víxilsins ef hann eigi er borgaður áður en að þeim kemur í réttri röð.

11. Vilji sá er ritar nafn sitt á víxil láta í ljósi það, að hann hafi traust á manni þeim, er víxilinn semur, en eigi skeðast ábyrgðarfullur fyrir borgun hans, riti hann auk nafns síns „without recourse to me", á víxilinn undir nafni sínu.

12. Rentuberandi er eigin-víxill ekki fyr en eftir gjalddaga, nema ef svo er framtekið í víxlinum sjálfum.

13. Lögleg renta er 6 prct. Það er því hægt að heimta sem rentu, en ekki meir, nema framtekið sé í víxlinum sjálfum.

14. Sé enginn gjalddagi tiltekinn, má heimta rentu frá þeim degi sem sá, er býr til víxilinn, er beðinn að innleysa hann.

15. Ábyrgðarmaður víxils, ef enginn gjalddagi er tiltekinn, er ábyrgðarfullur um takmarkaðan tíma að eins.

16. Til þess að geta heimtað borgun af ábyrgðarmanni (eða mönnum), verður að krefjast borgunar af þeim, sem víxilinn bjó til, á þeim gjalddaga, sem tiltekinn er í víxlinum sjálfum. Neiti hann að borga, skal undir eins gjöra ábyrgðarmönnum aðvart.

17. Vitni verður að viðhafa ef sá semur eiginvíxil, sem eigi getur skrifað sjálfur.

18. Þó eigin-víxill brenni eða týnist, má innkalla skuldina, ef sannað er að svo hafi verið.

19. Það er glæpur fyrir lögum að breyta eiginvíxlum, eða búa þá til að nokkuru leyti sviksamlega.

20. Sé eigin-víxill ritaður og nafn einhvers ritað undir hann í óleyfi, eða svo hann viti ekki, er slíkur víxill ógildur.

21. Taki einhver falsaðan víxil sem borgun fyrir verðmæti, og viti ekki að hann sé falsaður, þá er hægt að krefjast þess að víxillinn sé innleystur.

22. Hægt er að nota víxil, sem eigi var borgað-

ur er hann féll í gjalddaga, sem gjaldmiðil, þó því að eins að til séu teknar rentur o. s. frv.

23. Rita skal ætíð nafn þess staðar, sem víxillinn skal borgast á. Það er eins mikilsvert eins og það, að tiltaka tímann.

24. Eigin-víxil má rita á hvaða tungumáli sem er, og á hvaða hátt sem er, sé skilyrðanna gætt, sem fram eru tekin hér að framan.

25. Finni einhver víxil eða steli honum, getur hann ekki krafist þess, að víxillinn sé innleystur.— En hafi einhver fengið víxil sem borgun fyrir verðmæti, þó sá, sem afhenti hann, hafi fundið hann eða stolið honum, þá getur sá haldið víxlinum jafnvel fyrir eigandanum, hafi hann ekki vitað, að víxillinn var fundinn eða stolinn.

26. Peningum, sem borgaðir eru fyrir óvarkárni (by mistake), skal skila aftur.

27. Afhenda skal víxil og heimta borgun á þriðja degi eftir að hann fellur í gjalddaga. Sé sá dagur sunnudagur, skal framvísa víxlinum daginn eftir.

28. Sá sem veitir viðtöku víxli, sem fallinn er í gjalddaga, eins og borgun fyrir verðmæti, ætti að gæta þess, að víxillinn er þá ekki virði nema þess sem framtekið er í víxlinum sjálfum að rentunni frádreginni.

29. Sá sem veitir viðtöku víxli, sem falsaður er, getur ekki krafist að sá víxill sé innleystur.

30. Það er ógilt að rita víxil sem gjöf til annars manns; þá er hann ekki borgun fyrir verðmæti.

31. Sé krafist þess, að víxill sé innleystur, er hann fellur í gjalddaga og sé neitað að borga, skal fara með þann víxil til „notary public“ til að undirrita hann (protesting a note).

32. Veiti sá, sem víxill á að borgast til, frest á

að borga, eru ábyrgðarmenn lausir allra mála, nema ef þeir samþykkja frestinn.

33. Það verður að sanna að sá maður, sem víxilinn ritaði, hafi sjálfur undirritað hann.

34. Undirriti margir menn sama víxilinn, og lofist jafnt til að borga hann (riti: „we jointly promise to pay o.s.frv.), er að eins hægt að krefjast borgunar af hverjum einum eftir réttum hlutföllum; en ábyrgist hver fyrir sig alla upphæðina (riti: „we promise" eða: „either of us promise to pay" o. s. frv.), er hver fyrir sig ábyrgðarfullur fyrir allri upphæðinni.

35. Sé ritað á víxilinn „I promise to pay" o. s. frv. (eg lofast til að borga) en víxillinn undirritaður af mörgum, er hver þeirra fyrir sig ábyrgðarfullur fyirir allri upphæðinni.

36. Riti sá víxil, sem eigi hefir náð lögaldri, er sá víxill ógildur; en undirriti sami maður hann á ný eftir að hann hefir náð lögaldri, er sá víxill gildur.

37. Sé svo tiltekið í víxlinum, að eigi megi nota hann sem gjaldmiðil (non-negotiable note), gildir víxiilinn að eins fyrir þá menn, sem víxillinn sjálfur tiltekur

38. Sé einhverjum skilyrðum um borgun á víxli, upphæð, gjalddaga o.s.frv., breytt, losar það alla hlutaðeigendur við ábyrgð alla, nema ef þeir sjálfir vissu um breytinguna og samþyktu hana.

39. Orðið „mánuður" ritað á víxii, á við almanaksmánuð.

40. Innanlandsvíxlar eru þeir, sem ritaðir eru í Kanada (eða hvaða landi sem átt er við), og eiga að borgast þar. Utanlands-víxlar (Bills of Exchange etc.), eru þeir, sem ritaðir eru í einu ríki, en eiga að borgast í öðru.

---

## Fundarreglur.

---

*Tilhögun opinberra funda. Myndun kappræðufélaga og annarra félaga bókmentalegs eðlis.*

1. *Vanþekking á fundarreglum.*—Það er mikil furða, hve fáir skilja hinar einföldu reglur fyrir fundahöldum. Hve oft menn eru kvaddir til forsætis á opinberum mannfundum eða til að stýra einhverju samkvæmi og eru þó ókunnir einfoldustu skyldum þess manns, sem sitja skal í forseta sæti. Þeir verða þá feimnir og koma engu orði upp og haga sér svo að vinir þeirra og vandamenn þola önn fyrir þá. Sá, sem leita vill sér dálítillar fræðslu í þessu efni, getur fullfær orðið til að inna forsetastörf af hendi á veglegan hátt og öllum til ánægju.

2. *Hvernig setja skuli opinbera mannfundi.* —Hið fyrsta,sem gjora skal á mannfundum,er að setja fundinn. Þegar tiltekinn tími er kominn, biður einhver sér hljóðs og leggur það til, að Árni eða Björn eða Davíð sé forseti þessa fundar. Nái sú tillaga ekki fram að ganga, er einhver annar maður tilnefndur, þangað til maður er fenginn, sem tekur forseta sæti. Hið næsta er að kjósa fundarskrifara. Biðst þá forseti eftir, að einhver sé tilnefndur. Þegar það hefir verið gjört og sú tillaga studd, fer atkvæðagreiðsla fram. Þegar skrifari hefir verið kosinn, er vanalega engin þörf á fleiri embættismönnum á slíkum fundum. Forseti spyr þá að, hvert sé hið eiginlega ætlunarverk þessa fundar; biður þá einhver þeirra, sem gengist hafa fyrir því, að fundurinn væri haldinn, um leyfi til að tala, stendur á fætur og skýrir frá tilgangi fundarins, eða, ef hann vill enn þá betur gjöra, leggur fram ályktan, er áður hefir samin verið, þar sem álit

fundarins á málefni því, er fundurinn hefir risið út af, er greinilega tekið fram.

3. *Aðaltillaga.*—Hver umræða skyldi hafin með tillögu eða ályktun. Hún er nefnd „aðaltillaga". Meðan verið er að ræða þess konar tillögu, má enga aðra aðaltillögu bera fram. En það eru ýmsar aðrar tillögur, sem komast má að með og út af þeim má bera fram enn aðrar, meðan verið er að ræða tillöguna. Sumar þeirra verður að styðja, aðrar þarf ekki að styðja; breyting má gjöra við sumar, aðrar ekki; sumar má ræða, aðrar ekki; sumum má fresta, eða vísa til nefndar til ákveðins eða óákveðins tíma, öðrum ekki; sumar má taka upp aftur, aðrar ekki; sumar þurfa tvo-þriðju atkvæða; öðrum má ráða til lykta með einföldum meirahluta.

4. *Fulltrúanefndir.* — Þegar þingmenn koma saman eftir kosningu, er hið fyrsta sem gjöra þarf, eftir að bráðabyrgðarstjórn hefir verið skotið á, eins og að ofan er grein fyrir gjörð, er að skipa kjörbréfanefnd, er rannsaka skal hverir með réttu eigi þar sæti. Þá skal varanleg þingstjórn og málefni tekin fyrir.

5. *Tillögur með forgöngurétti.*—Svo eru nokkurar tillögur nefndar, af því þær sökum mikilvægi eiga forgöngurétt fyrir öðrum.

6. *Tilviljunar-tillögur.*—Það eru tillögur, sem fyrir kunna að koma eða æxlast út af öðrum tillögum, er verður þess vegna að ráða til lykta á undan þeim málum, er þær hafa risið út af.

7. *Aukatillögur.* — Það eru tillögur, sem komið er fram með út af öðrum tillögum, til þess að greiða þær af hendi með öðru móti en því að samþykkja þær eða fella á beinan hátt.

8. *Aðaltillaga.* — Fyrir henni hefir þegar verið gjörð grein.

9. *Ýmsar tillögur.*—Það eru tillögur um að taka mál til íhugunar aftur, eða um að endurnýja gamla tillögu. Með þessu er til ætlast að tillaga, sem heyrir 2., 3. og 4. flokki til, skuli víkja fyrir tillögu af 1. flokki; tillögur úr 3. og 4. flokki víkja fyrir 1. og 2.; og þær, sem eru úr 4. flokki fyrir 1., 2. og 3. Þetta er aðalreglan; en einstöku breytingar geta á henni orðið, eins og síðar kemur í ljós.

10. *Tillögur með forgöngurétti.*—Þessar tillögur eru með forgöngurétti í þeirri röð, sem þær eru hér taldar:

1. Að ákveða tíma, þegar fundi skal slitið.
2. Að slíta fundi.
3. Málefni með forgöngurétti.
4. Dagskrá.

11. *Tillaga um að ákveða, hve lengi fundi skal frestað.* — Tillaga um að ákveða, hve lengi fundi skal frestað, er ekki tillaga um að slíta fundi, eins og nafnið ber með sér, heldur er það blátt áfram tillaga um að ákveða tíma þann, er fundarhlé skuli ná yfir, svo framarlega sú fundarfrestun verði samþykkt. Má orða hana svo: Ég legg það til, að þegar við frestum fundi, verði það fundarhlé þangað til þenna eða þenna dag, eða við komum aftur saman þenna dag, sem þá skal tiltekinn um leið. Slík tillaga á forgöngurétt fyrir öllum öðrum tillögum og má koma henni að jafnvel eftir að atkvæði hafa verið greidd um fundarhlé, ef forseti hefir ekki lýst úrslitum yfir.

12. *Tillaga um að slíta fundi.*—Tillaga um að slíta fundi hefir forgöngurétt fyrir öllum tillögum, nema þeirri, er síðast var talin, en fyrir henni verður hún að víkja; það er að segja, það má koma fram með slíka tillögu meðan verið er að ræða allar aðrar tillögur, nema tillögu um að ákveða fund-

arhlé, en ekki má fram með hana koma meðan verið er að ræða þá tillögu.

13. *Málefni með forgöngurétti.*—Þeim má ekki slengja saman við „tillögur með forgöngurétti.“ Hinar síðarnefndu tákna heilan flokk af tillögum; en hin fyrnefndu eru ein tegund mála, er þeim flokki heyra til. Sem dæmi upp á málefni með forgöngurétti má nefna: Hvort komið skuli í veg fyrir óreglu; hvort eigi megi loka opnum glugga, er setji heilsu einhvers í veð; hvort árásir gegn opinberu mannorði einhvers þingmanns skuli leyfðar o. s. frv. Þessi málefni skulu fram borin á þessa leið: (þingmaðurinn ávarpar forseta og segir, að fengnu leyfi til að tala): „Eg stend á fætur til að ræða mál með forgöngurétti.“ Forseti biður hann þá að bera málið fram í fám orðum: hann sker síðan úr, hvort það sé málefni með forgöngurétti eða ekki.

14. *Dagskrá.*—Þetta orðatiltæki er viðhaft til að tákna þau mál, sem ákveðið hefir verið að taka til meðferðar á tilteknum tíma. Þegar æskilegt er, að mál sé rætt á einhverjum ókomnum tíma, er komið fram með tillögu um, að það mál sé sett á dagskrá einhvern tiltekinn dag og er þá tíminn fastsettur um leið; eða ef vanaleg mál liggja fyrir til meðferðar á þeim tíma, er það lagt til, að málið verði tekið þá fyrir með „sérstakri fyrirskipun.“ Tvo-þriðju hluta atkvæða þarf til þess, að mál sé tekið til meðferðar samkvæmt sérstakri fyrirskipun; en þegar það hefir verið gjört, hefir það mál forgöngurétt fyrir vanalegum málum.

15. *Tilviljunar tillögur.*—Tilviljunar tillögur í þeirri röð, sem þær hafa forgöngurétt, eru þessar:

1. Málum skotið til úrskurðar forseta (þingsköp).
2. Andmæli gegn meðferð máls.
3. Lestur skjala.

4. Afturköllun tillögu.
5. Frávikning þingskapa.

16. *Úrskurður forseta.*—Þingmaður, sem verður var við einhverja óreglu í meðferð þings á málum, eða hegðun og siðgæði annarra þingmanna, og vill fá það lagfært, fær leyfi til að tala og segir: „Eg stend á fætur til að tala um þingsköp.“ Þegar hann hefir skýrt frá hugsun sinni, sker forseti úr, hvort andmæli hans hafa við rök að styðjast. Frá þeim úrskurði má hver þingmaður skjóta máli sínu fyrir þing með því að segja: „Eg ber málstað minn undir þingið (fundinn)“. Ef einhver styður þetta málsskot, ber forseti þegar upp þessa spurning: „Er þingið samþykt úrskurði forseta?“ og ber hana upp til atkvæða. Engar umræður mega verða, þegar þetta einungis rís út af siðgæði, broti á þingsköpum, forgöngurétti mála, eða meðan verið er að íhuga annað mál.

17. *Andmæli gegn meðferð mála.*—Þegar þingmaður gefur til kynna, að hann sé andvígur meðferð einhvers máls, ber forseti þegar upp til atkvæða þessa spurning: „Á að taka þetta mál til meðferðar?“ Ef atkvæðagreiðslan svarar þessu játandi, halda umræðurnar áfram; en ef hún svarar neitandi, er málið látið niður falla á þeim fundi.

18. *Lestur skjala.*— Sérhver þingmaður hefir rétt á að heimta, að skjal sé lesið áður hann greiði atkvæði um það. Þegar einhver biður um, að skjal sé lesið, skipar forseti þegar fyrir um lestur þess, ef engin andmæli koma fram. Séu andmæli upp borin, verður að láta skera úr spurningunni, hvort það skuli lesið eða ekki með atkvæðagreiðslu án umræðu eða viðauka.

19. *Afturköllun tillögu.*—Þingmaður, sem ber fram tillögu, getur kallað hana aftur, ef engin andmæli koma fram. Séu andmæli fram borin gegn

afturköllun tillögu, verður að skera úr með atkvæðagreiðslu, hvort tillagan skuli afturkölluð eða ekki. Engar umræður eða viðaukar mega eiga sér stað.

20. *Frávikning þingskapa.*—Þegar þess í einhverjum sérstökum tilgangi er óskað, að vikið sé frá þingsköpum (fundarreglum), má fram koma með tillögu um það á þenna hátt: „Eg legg það til, að vikið sé frá fundarreglum, er koma í bága við" o. s. frv., og skal tilgangur frávikningarinnar þá tekinn fram. Um þetta mega engar umræður verða; það má ekki taka það til íhugunar aftur og engar aðstoðar-tillögur má tengja við það; tvoþriðju hluta atkvæða þarf til samþykkis. Aðra tillögu um frávikning í sama tilgangi má ekki taka til greina.

21. *Aðstoðartillögur.*—Þessar tillögur eru eins mikilvægar og nokkurar, sem nefndar hafa verið, og koma oftar fyrir en nokkurar aðrar. Aðstoðartillögur eru þær, sem nú skal geina:

1. Að fresta máli.
2. Undanfarandi mál.
3. Að fresta til ákveðins tíma.
4. Að skjóta máli til nefndar.
5. Að gjöra viðauka.
6. Að fresta til óákveðins tíma.

Með tilliti hver til annarrar eiga tillögur þessar forgönguréttt í þeirri röð, sem þær hér eru settar.

---

# Póstmálafróðleikur.

Bendingar til almennings viðvíkjandi póstmálum:

Leggið öll bréf o. s. frv. eins snemma inn á pósthirðingastað og hægt er, einkum þegar margt er sent í einu, eins og oft á sér stað með blöð og auglýsingar.

Allar póstsendingar á stórum pósthirðingarstöðum er óhjákvæmilega farið með í miklum flýti og ætti því ávalt að vera skýrt utan á þær ritað, svo póstþjónarnir þurfi aldrei að vera í vafa né hafi nokkura afsökun fyrir yfirsjónir.

Varast skyldi sem framast má verða að nota umslög úr lélegum pappír einkum þegar innan í þau er látið fleiri en ein pappírsörk, eða eitthvað annað en pappír. Það þarf oft að fara með þau, það er þrýst að þeim í póstsekkjunum, þau springa því oft sundur, svo menn verða óánægðir.

Aldrei skyldu peningar sendir eða aðrir verðmætir hlutir með pósti nema með póstávísan eða bréfi, er ábyrgð hefir verið keypt á. Hver, sem sendir peninga eða skrautmuni í ábyrgðarlausu bréfi á ekki einungis á hættu að glata eign sinni, en leiðir hvern þann í freistingu, sem handleikur slíkt bréf, og getur orðið verkfæri til að eyðileggja líf einhvers póstþjóns eða bréfbera á endanum.

Hvert bréf eða böggull skyldi bera með sér nafn og heimili þess, sem sendir, með fullum stöfum, svo hann geti verið fullviss um endursending bréfsins, ef sá, er sendibréfið er til, gefur sig ekki fram. Hægt væri að endursenda miklu meira af óafhentum bréfum, ef nöfn og heimili þeirra, sem senda, væru fullum stöfum og skýrum rituð eða prentuð á bréfið sjálft eða umslagið. Þeir, sem miklar bréfaskriftir hafa, láta prenta þess konar

beiðni á umslög sín; en þeir, sem einungis við og við skrifa, komast hjá miklum vafningum með því, að rita á umslagið: *Return, if not delivered.*

Þegar sendibréf, blað o. s. frv. er látið í póstkassa á stræti, eða á tiltekinn stað á pósthúsinu sjálfri, skyldi ávalt eftir því litið, að böggullinn falli niður í kassann og verði ekki fastur í opinu; gæta skyldi þess um leið, að frímerkin tolli vel á í réttum stað.

Frímerkin skyldu látin á efra hornið til hægri handar þeim megin sem utanáskriftin er á öllum póstsendingum.

Stræti og númer (eða númer á póstkassa) skyldi ávalt vera einn hluti utanáskriftar póstsendinga, sem til borga eiga að fara. Í flestum borgum eru margir menn, jafnvel verzlunarfélög, með sama nafni Áður nokkur böggull eða póstsending er látinn á póststofu, skyldi sá, er sendir, líta vel eftir, að um það sé búið á þann hátt, sem skipað er fyrir í póststjórnar-reglugjörðinni; að það sé ekkert, er ekki má senda með pósti; eða sé fyrirferðar meira eða þyngra en lögin ákveða; og að nóg sé borgað undir það og rétt sé utan á það skrifað.

Það er á móti lögum að senda vanalegt bréf með *express* (skyndisending) eða á annan hátt nema með pósti, nema því að eins að það sé í umslagi með stjórnarfrímerki. Það er líka lögum gagnstætt að smeygja bréfi í böggul, sem sendur er með express, nema það sé einungis um innihald böggulsins.

Bannað er einnig að póstafgreiðslumenn gefi nokkurum manni nokkura upplýsing um póstsendingar annars manns, eða að segja frá nafni þess, er einhvern póstkassa hefir á póststofu.

Utan á bréf til manna, sem að eins um stundarsakir búa í einhverri borg þar sem bréf eru ókeypis

borin í kring, ætti að skrifa: *Transient* eða *General Delivery*, ef ekkert stræti, húsnúmer eða tiltekinn staður er nefndur, þar sem skuli skila því.

---

**Peningasendingar með pósti.**

*Banka-ávísanir.* — Ávísun á einhvern áreiðanlegan banka er lang-bezta og myndarlegasta aðferðin við að senda peninga. Hún er áreiðanleg, óhult og ódýr.

Bezt er samt sem áður að láta ávísunina hljóða upp á sjálfan sig og rita síðan nafn sitt á bakið og þess, er þú vilt láta borga peningana til.

*Póstávísanir.*—Póstávísanir eru líka óhultar og áreiðanlegar, er peninga þarf að senda. Þær kosta dálítið meira en banka-ávísanir, eru eins áreiðanlegar, og þeim mun þægilegri sem pósthús eru opin allan dag.

*Ábyrgðarbréf.*—Stjórnin lofar sérstakri varúð í meðferð og sending ábyrgðarbréfa eða bögla, en tapist það, verður eigandi fyrir skaða en stjórnin ekki. Peningar, sem sendir eru í ábyrgðarbréfum, eru ávalt sendir upp á áhættu eigandans.

*Express ávísanir.*—Að því er óhultleik snertir eru express eða hraðboða-ávísanir jafn-áreiðanlegar og ávísanir upp á banka og pósthús. Stundum geta óþægindi út af því risið, að hraðboðaskrifstofan, sem ávísanin hljóðar upp á, hefir ekki fé fyrir hendi til útborgunar; verður þá sá, er ávísanina hefir í hendi, að bíða eftir hentugleikum erindreka félagsins, sem oft eru fremur seinir, með að ná upphæðinni frá einhverri annarri skrifstofu.

---

**Póstgjald í Kanada.**

SENDIBRÉF.—Póstgjald innan Kanada er 2c. á hverja únzu. Sé ekki borgað undir bréf, verða

þau send beint á dauðrabréfaskrifstofuna (í Ottawa). Sé að eins að nokkuru leyti borgað undir bréf, eru bréfin send til viðtakanda, sem þá verður að borga tvöfalt fyrir það sem vantar á. Eigi bréf að fara til einhvers, sem sama pósthús á og sá er sendir, en það er frímerkt að eins að nokkuru leyti, eru þau bréf einnig send á dauðrabréfaskrifstofuna. Burðargjald slíkra bréfa er 1c. á hverja únzu., og þar sem bréf eru borin heim til manna 2c. á hverja únzu.

PÓSTSPJÖLD.—Innan Kanada og Bandaríkjanna, 1c. hvert.

*Prívat-póstspjöld.*—Þá hliðina, sem ætluð er fyrir utanáskrift, má nota fyrir auglýsingar, myndir o. fl., ef eftir er skilið pláss sem nemur að minsta kosti ¼ úr þuml. í kring um frímerkið og 3½ þuml. á lengd og 1½ þuml. á breidd fyrir utanáskrift, neðan til á póstspjaldinu til hægri handar. Slík spjöld mega ekki vera lengri en 6 þuml. eða breiðari en 3⅝ þuml. Séu spjöldin stærri en hér er tekið fram, verður að borga undir þau sem vanaleg sendibréf. Rita eða prenta skal orðin: „*Private Post Card*" framan á hvert það póstspjald, sem út úr Kanada er sent.

*Til Bandaríkjanna.* — Burðargjald bréfa til Bandaríkjanna er eins og innan Kanada. Bréfin verða að vera frímerkt, að minsta kosti með hálfu burðargjald.

*Til útlanda.*—Burðargjald bréfa til allra annarra landa en Bandaríkjanna er 5c. fyrir hverja únzu eða brot úr únzu.

*Ábyrgð bréfa.*—Þegar send eru verðmæt eða áríðandi bréf ætti að gæta þess að kaupa á þau ábyrgð og fá vottorð um það frá póstafgreiðslumanni. Fyrir þa verður að borga 5c. auk vanalegs burðar-

gjalds, í frímerkjum sem sett skulu á bréfið. Slík votrygging er þó ekki ábyrgð í eðli sínu, en þar sem ekki er hægt að finna út neitt um þau bréf, sem ekki hefir keypt verið ábyrgð á, þó þau glatist, er oft hægt að rekja feril hinna.

*Votrygging bréfa.*—Það er hægt að kaupa votrygging (insurance) á ábyrgðar-bréf innan Kanada, þegar upphæðin nemur ekki meir en $25. Og skal það gjald borgast í frímerkjum, sem sett skulu á bréfið auk þess vanalega gjalds fyrir ábyrgðarbréf. Votryggingargjaldið er sem fylgir: 3c. ábyrgjast í hæsta lagi $10; 4c. ábyrgjast í hæsta lagi $15; 5c. ábyrgjast í hæsta lagi $20; 6c. ábyrgjast í hæsta lagi $25.

BÆKUR.—Í bögli af bókum má hafa eina bók eða margar, en þó má hann ekki vera þyngri en 5 pund innanlands, en 4 pund ef til annarra landa er sent, þó má senda eina bók þó hún vigti alt að 10 pundum. Bókaböggull má ekki vera yfir 2 fet á lengd og 1 fet á breidd. Burðargjald innan Kanada og til útlanda er 1c. fyrir hverjar 2 únzur.

BLÖÐ og TÍMARIT. — Burðargjaldið er 1c. fyrir hverjar 4 únzur. Veita skyldi því eftirtekt, að gjaldið er 1c. fyrir hverjar 4 únzur, en ekki 1c. fyrir hvert blað í sömu umbúðunum. Fyrir blaðaböggul, sem ekki vegur 1 únzu, er burðargjaldið ½ cent.

PÓSTÁVÍSANIR. — Fyrir póstávísanir, sem keyptar eru í Kanada og borgast eiga í Kanada, Bandaríkjunum og Nýfundnalandi, verður að borga: Ef ekki fer yfir $5, 3c.; yfir $5 upp til $10, 6c.; yfir $10 upp til $30, 10c.; yfir $30 upp til $50, 15c.; yfir 50 upp til $75, 25c.; yfir $75 upp að $100, 30c.—Engin ein póstávísun má nema meiru en $100, en eins margar $100 ávísanir eins og menn vilja, er hægt að fá keyptar.

Fyrir póstávísanir, sem borgast eiga út í öðrum löndum (þar með talið Ísland) verður að borga: Ef ekki fer yfir $10, 10c.; yfir $10 upp að $20, 20c.; yfir $20 upp að $30, 30c.; yfir $30 upp að $40, 40c.; yfir $40 upp að $50, 50c.; yfir $50 upp að $60, 60c.; yfir $60 upp að $70, 70c.; yfir $70 upp að $80, 80c.; yfir $80 upp að $90, 90c.; yfir $90 upp að $100, $1.

---

**Póstgjald í Bandaríkjunum.**

Burðargjald með póstum í Bandaríkjunum er alveg það sama og í Kanada á bréfum, póstspjöldum, bókum, fréttablöðum o. s. frv. Ábyrgð á alls konar póstsendingum kostar þar 8c. á bréfið auk venjulegs póstgjalds. Skaðabætur—sem ekki mega nema meira en $10—borgar póststjórnin fyrir glötuð sendibréf, sem ábyrgð hefir verið keypt á.

*Póstávísanir innanlands* eru gefnar út á pósthirðingastöðum, sem leyfi hafa til þess, fyrir allar upphæðir upp að $100 fyrir þessa þóknun: Fyrir upphæðir, sem ekki fara yfir $2.50, 3c.; yfir $2.50 upp að $5, 5c.; yfir $5 upp að $10, 8c.; yfir $10 upp að $20, 10c.; yfir $20 upp að $30, 12c.; yfir $30 upp að $40, 15c.; yfir $40 upp að $50, 18c.; yfir $50 upp að $60, 20c.; yfir $60 upp að $75, 25c.; yfir $75 upp að $100, 30c.

*Póstávísanir til útlanda* eru gefnar út fyrir þessa þóknun: Fyrir upphæðir, sem ekki fara yfir $10, 10c.; yfir $10 upp að $20, 20c.; yfir $20 upp að $30, 30c.; yfir $30 upp að $40, 40c.; yfir $40 upp að $50, 50c.; yfir $50 upp að $60, 60c.; yfir $60 upp að $70, 70c.; yfir $70 upp að $80, 80c.; yfir $80 upp að $90, 90c.; yfir $90 upp að $100, $1.

*Umslög með frímerkjum.* — Umslög með upphleyptum frímerkjum og blaðaumbúðir með ýmsu verði, litum og stærð eru til sölu á pósthirðingastöðum, bæði í Bandaríkjunum og Kanada, og má

kaupa eitt eða mörg í einu fyrir lítið meira en verð frímerkjanna. Frímerki, sem klipt eru út úr slíkum umslögum, eru einskisvirði, en póstafgreiðslumenn hafa heimild til að gefa góð frímerki fyrir umslög með frímerkjum eða blaðaumbúðir, sem ónýt hafa orðið við utanáskrift, ef með þau er komið í heilu lagi og nægilegum skýringum.

---

# Vigt og mál.

---

*Tenings (cubic) mæling.*

1.728 tenings þumlungar eru 1 tenings fet, 27 tenings fet eru 1 tenings yard, 128 tenings fet gera 1 cord (eldivið), 40 tenings fet er 1 ton (shipping), 2,150.42 tenings þuml. er 1 ,standard' bushel, 231 tenings þuml. er 1 standard gallon, 1 tenings fet er fjórir fimtu úr busheli. (Imperial gallon er 277¼ ten. þuml.).

*Landmæling.*

7.92 þuml. er 1 link, 25 links er 1 rod, 4 rods er 1 keðja, 10 ferhyrnings keðjur (chains) eða 160 ferhyrnings rods er ein ekra, 640 ekrur er 1 ferhyrnings míla .

*Lengdarmál.*

3 byggkorn gera 1 þuml., 12 þuml. gera 1 fet, 3 fet gera 1 yard, 5½ yard er 1 rod, 40 rods er 1 furlong, 8 furlongs er 1 míla.

*Þurramæling.*

2 pints gera 1 quart, 8 quarts gera - peck, 4 pecks gera 1 bushel, 36 bushel gera 1 chaldron.

*Lagar eða vínmæling.*

4 gills gera 1 mörk, 2 merkur gera 1 pott, 4 pottar gera 1 gallon, 31½ gallon gera 1 tunnu, 2 tunnur gera 1 svínshöfuð.

*Gull og silfur vigt.*

24 korn (grains) gera 1 pennyweight, 20 pennyweights gera 1 únzu. Með þessari vigt er einungis gull, silfur og gimsteinar vegið. Únzan og pundið er sama og í apótekara-vigt.

*Apótekara-vigt.*

20 korn (grains) gera 1 scruple, 3 scruples er 1 drachm, 8 drachms er 1 únsa, 12 únsur gera 1 pd.

*Algeng verzlunar vigt.*

16 drachms gera 1 únzu, 16 únzur gera 1 pund, 25 pund gera 1 fjórðung, 4 fjórðungar gera 100 vætt, 2,000 pund gera 1 ton.

*Hringmál.*

60 sekúndur gera mínútu, 60 mínútur gera 1 gráðu, 30 gráður gera 1 merki (sign), 90 gráður gera 1 hringfjórðung (quadrant), 4 hringfjórðungar eða 360 gráður gera 1 hring (circle).

*Tíma-mál.*

60 sekúudur gera 1 mínútu, 60 mínútur gera 1 klukkutíma, 24 klukkutímar gera 1 dag, 7 dagar gera 1 viku, 4 vikur gera 1 tunglmánuð, 28, 29, 30 og 31 dagar gera 1 almanaksmánuð, (30 dagar gera einn mánuð, þegar talað er um rentur), 52 vikur og 1 dagur eða 12 almanaksmánuðir gera 1 ár, 365 dagar, 5 klukkutímar, 48 mínútur og 49 sekúndur gera 1 sólar ár.

*Ferhyrnings-mál.*

144 ferhyrnings þumlungar gera 1 ferh. fet, 9 ferh. fet gera 1 ferh. yard, 30¼ ferh. yard er 1 ferh. rod, 40 ferh. rods gera 1 rood, 4 roods gera 1 ekru, 160 ferh rods er 1 ekra.

*Dúka-mál.*

2¼ þumlungur er 1 nagli, 4 naglar er 1 kvartil, 4 kvartil er 1 yard.

*Ýmislegt.*

3 þumlungar er 1 palm, 4 þuml. er 1 hönd, 6

þuml. er 1 spönn, 18 þuml. er 1 cubit, 28.8 þuml. er 1 biblíu cubit, 2½ fet er 1 hermanna skref.

## Um innheimtu skulda.

Ef ekki er unt að komast að einhverjum samningum og allar tilraunir í þá átt hafa árangurslausar orðið,er ekki annað úrræði eftir en að stefna málinu fyrir dómstólana og ráða því til lykta að lögum. En reyndar er sú aðferð bæði kostnaðarsöm og óviss. Skuldalúkningarsamningur er oft betri en niðurstaða dómstólanna, þó mjög mikið sé að honum að finna.

*Manitoba-fylki.*

*Smá-mál.*—Í smámálum hefir sýslurétturinn í Manitoba dómsvald í einkamálum og fjárheimtumálum, er nema $250.

Hægt er að leggja löghald á allar skuldir, er heyra undir dómsvald sýsluréttarins og fyrsti skuldheimtumaður gjörir tilkall til, bæði um leið og málshöfðun fer fram og eins eftir dómsuppsögn.

*Norð-vestur héröðin.*

*Löghald.*—Þegar kallað er eftir skuld eða borgaðri kröfu, má fyrir eða eftir dóm gefa stefnu út og birta hana öllum þeim, er skulda frumskuldheimtumanni; en ekki er hægt að leggja löghald á neina skuld, sem borgast á handverksmanni eða daglaunamanni fyrir upphæð, er nemi eins mánaðar kaupi og ekki er meira en $50.

## Gefið ekki eigur yðar í ellinni.

Þegar sumir menn hníga á efra aldur,gjöra þeir sig seka í þeirri hættulegu yfirsjón að gefa allar

eigur sínar börnum sínum og verða svo að reiða sig á þau til umsjár.

Hve margt gamalt fólk hefir til grafar gengið brostnu hjarta og í skorti allra lífsnauðsynja, af því það ætlaði að hjálpa börnum sínum og gaf þeim allar eigur sínar.

Þegar árin fara að verða þung á baki og nógar eru eignir, er óhætt að skifta nokkurum hluta þeirra með börnunum, en meira hlutanum skyldi gamla fólkið sjálft hafa hönd yfir til allra umráða beinlínis og óbeinlínis.

Það er trygging góðrar umsjár og nægilegra lífsþæginda.

Umhyggja og ást barnanna kólnar ekki á meðan þau eiga einhverja arfsvon.

Það dreif á daga þess, sem þetta ritar, þegar hann var drengur að eiga heima hjá fjölskyldu einni, þar sem faðirinn hafði í ellinni gefið börnum sínum allar eigur sínar. Þegar búið var að skifta með þeim, varð faðir þeirra ellihrumur þeim til byrði, og var sendur milli sona sinna og dætra, því öll höfðu þau skuldbundið sig til að sjá um föður sinn í ellinni. En aldrei kom hann á heimili sonar eða dóttur, þar sem hann var velkominn gestur. Þegar sá, er þetta ritar, átti heima hjá ofangreindri fjölskyldu, var þessi aldraði faðir þar líka, og ef það vildi svo til að kaffið var ekki nóg í alla bollana að morgni, þá varð bolli gamla mannsins ávalt útundan; ef að kjötið eða einhver önnur fæða varð ónóg, var sannarlega látið á diskinn gamla mannsins af skornum skamti; ef að eftirmaturinn varð heldur lítill, var sleikjan ekki stór, sem gamalmennið fekk. Og um nætur neyddist hann til að sofa í köldu loftherbergi aleinn og yfirgefinn. Þegar hann loksins fekk lausn frá hörmungum sínum,

er eg viss um að öllum börnunum var það til mesta fagnaðar, en ekki sorgar.

Fyrir mann, sem er eigandi jarða eða verksmiðju eða húsa getur það óhjákvæmilegt orðið sökum elli að færa byrði og áhyggjur búsýslunnar yfir á yngri herðar; eignarhaldi skyldi samt sem áður ekki sleppa, en hlaupin og eftirlitið með eigninni má fela einhverju barni sínu eða manni óviðkomanda.

Áreiðanlegur málaflutningsmaður er ávalt til þess boðinn að taka þess konar sýslu að sér.

Hver giftur maður skyldi erfðaskrá gjöra til konu sinnar, svo hún í ellinni þurfi ekki að vera upp á aðra komin.

---

# Lagamolar.

Vanþekking á landslögum afsakar engan.

Verzlunarsamningar eru ólögmætir, nema þeir beri með sér að hlutaðeigandi málspartar hafi tekið á móti peningum eða peninga virði.

Undirskriftir með blýanti eru gildandi samkvæmt lögum.

Samningar gerðir við vitskerta menn eru einkis virði.

Yfirmenn bera ábyrgð á gjörðum þjóna sinna því að eins, að þær ekki yfirstígi það vald, sem þjónunum hefir verið gefið.

Þegar tveir eða fleiri reka verzlan í félagi, ber hver og einn af þeim ábyrgð á öllum skuldum verzlunarinnar.

Ómyndugir menn mega vista sig til þess að læra iðn eða handverk, en falli þeim ekki vistin, þá mega þeir rifta samningunum.

Vörur, sem veðsettar eru hjá veðlánara, ganga úr eign þess, er veðsetti, nema þær séu innleystar innan eins árs frá þeim tíma, er þær voru veðsettar.

Verkgefandi er ekki skyldur til að gefa þjóni sínum neinar ástæður fyrir því, að hann segir honum upp vistinni, ef hann að eins gefur honum löglegan fyrirvara.

Sá, sem vísvitandi gefur ósannan vitnisburð umsækjanda um stöðu, gerir sjálfan sig sekan að lögum, og má hefja lögsókn gegn honum.

Í fangelsi má setja menn fyrir skuldir: *(a)* Þegar þeir ætla að strjúka burt í þeim tilgangi að svíkja lánardrotna sína. *(b)* Þegar þeir gera sig seka í að koma undan fé sínu í áður nefndum tilgangi; en lausn úr fangelsinu geta slíkir menn fengið með því að gefa fullnægjandi tryggingu fyrir því, að þeir mæti fyrir rétti á tilteknum degi.

---

## Myndun kaupsýslufélaga.

### Lög og reglur.

---

1. Kaupsýslufélag er samningur, er tveir eða fleiri menn gjöra með sér af eigin hvötum um að leggja saman eignir sínar, vinnu og lánstraust, að einhverju leyti eða öllu, til að reka einhverja lögmæta sýslu og taka þátt í ágóða og skaða eftir ákveðnum hlutföllum.

2. Þegar enginn tími er til tekinn, getur hver félagsmaður úr félaginu gengið, þegar honum lízt.

3. Deyi einhver félaganna, skal félaginu slitið.

4. Hver félagi hefir fullkomið vald til að gegna störfum alls félagsins.

5. Til lúkningar skuldum félagsins má eigi að eins taka sameign, heldur líka séreign hvers félaga.

6. Þegar félagi er slitið, standa gamlir félagar

í ábyrgð jafnvel fyrir nýjum skuldum,nema skuldunautar hafi fengið tilkynning um félagsslit.

7. Einn félagi getur losast við ábyrgð með því að gjöra ákveðna yfirlýsing um til viðskiftavina, að ekki skuli einum eða fleiri samfélögum hans trúað.

8. Ekki getur félagi látið kaupsýslufélag sitt bera ábyrgð á sérskuldum sínum né binda það með samningum, er ekki standa í sambandi við félagsskapinn eða eru honum óviðkomandi.

9. Kaupsýslufélagssamning má gjöra skriflega eða munnlega. Það er alvarleg skuldbinding, sem auðveldara er að bindast, en af sér að hrinda. Skyldi hver maður gjalda varhuga við að binda eignir sínar og hagsmuni í kaupsýslufélagsskap, og séu hagsmunirnir víðtækir er lang-óhultast að fá vel hæfan lögfræðing til að semja kaupsýsluskrá og mun þeim tilkostnaði ávalt vel varið.

10. Hver sem til þess gefur heimild að nafn hans sé notað, eða fær hlut í ágóða, ber ábyrgð jafn-mikla og þó hann væri félagi.

---

## Sparsemi.

Það ætti að vera mark og mið allra að eyða ávalt ögn minna en þeir innvinna sér. Þegar minst varir getur komið fyrir, að gott sé að eiga peninga í sjóði, og hversu lítill sem sá sjóður er, er hann miklu betri en enginn. Fyrsta skilyrðið fyrir unglinginn er að berast ekki of mikið á í klæðnaði og ausa ekki út fé að óþörfu á skemtistöðum. Það er góð regla að eyða aldrei sínum síðasta pening, hversu lítil sem upphæðin kann að vera í vasanum, nema nauðsyn krefji, nema ekki sé um annað að gera til að forða sér eða öðrum frá hungursdauða.

Þegar 5 dollarar eru fengnir í vasann, umfram það, sem þarf til nauðsynlegra gjalda,—fyrir fæði, föt o. s. frv., er beinasti auðnuvegurinn að fara með þá í sparibanka og leggja þar inn, en bera svo bankabókina í vasanum í stað peninganna. Og þá jafnframt er að strengja þess heit, að leggja einhverja ákveðna upphæð í bankann einu sinni á mánuði, eða einu sinni á viku, eftir því, hvernig kaupið er goldið. Það gerir ekkert til, þó upphæðin sé lítil í hvert skifti,—hún eykst fyr en mann varir. Um leið og peningarnir komast á bankann, taka þeir til starfa, við að auka innleggið. Það veit enginn fyr en hann reynir, hve þægilegt er að safna peningum, eftir að hann er farinn að skifta við bankann. Fyrsta afleiðing af þeim viðskiftum er sú, að maðurinn fær eins og nýtt líf, nýja löngun til að spara og fara vel að ráði sínu. Sem dæmi upp á starfsemi peninganna á banka, má geta þess, að sé ákveðin upphæð á banka—ekki aukin og ekki tekið af henni—, tvöfaldar hún sjálfa sig á þeim tíma, sem hér segir: Ef rentan er

2 prct. á 50 árum
2½ prct. á 40 árum.
3 prct. á 33 árum og 4 mánuðum.
3½ prct. á 28 árum og 206 dögum.
4 prct. á 25 árum.
4½ prct. á 22 árum og 81 degi.
5 prct. á 20 árum.
6 prct. á 16 árum og 8 mánuðum.
7 prct. á 14 árum og 204 dögum.
8 prct. á 12 árum og 6 mánuðum.
9 prct. á 11 árum og 40 dögum.
10 prct, á 10 árum.

Í þessari töflu er talin að eins einföld renta. Sé renturentu reikningur viðhafður, tvöfaldast gefin upphæð á alt að þriðjungi skemmri tíma.

# Hjálp í viðlögum.

---

*Druknan:* Losa um föt þess, sem druknaður virðist. Ná síðan vatninu úr lungunum, er gerist þannig: Legg líkamann á grúfu, tak svo um hann um miðjuna, lyft honum upp þangað til höfuðið hangir niður og hrist hann svo nokkurum sinnum. Tak vasaklút og ná með honum haldi á tungunni, sem þarf að teygja út fyrir tennurnar, og ef nauðsyn krefur skal binda spotta um tunguna, því um hana þarf að losa með einhverjum ráðum. Þegar búið er að búa svo um líkamann, að hæst sé undir bolnum, skal taka um síðurnar—um neðstu rifin—og þrýsta þeim saman og draga sundur aftur, í líkingu við þenslu þeirra undan eðlilegum andardrætti; skal þetta gert sem næst tuttugu sinnum á mínútu. Annan sprettinn skal lyfta handleggjunum upp frá síðunum þangað hendurnar vita beint upp fyrir höfuðið. Þetta hvorttveggja þarf að gera með lipurð, en með ástundun, því ekkert er eins gott til að hleypa lofti í lungun og knýja þau til starfa. Útlimi alla skal verma og núa kappsamlega, en með lipurð. Hafi þessar tilraunir ekki eftirþráð áhrif, skal styðja þétt á barkakýlið (svo að vélindað lokist), teygja út tunguna, loka nasaholinu, með því að klípa um nefið, draga að sér svo mikið loft sem maður getur og anda því svo frá sér í einni stroku inn í munn þess, sem maður er að reyna að lífga, og styðja svo á brjóst hans, svo loftið hlaupi út aftur. Ger þetta hvað eftir annað. Það er áríðandi *að gefast ekki upp.* Það er sannleikur að þeir, sem hafa virzt vera druknaðir, hafa lifnað við eftir *margra klukkustunda* tilraunir. Þegar maðurinn svo um síðir fer að draga andann, skal leggja hann í hlýtt rúm, gefa honum volgan drykk, eða vínanda,

teskeið og teskeið í senn, sjá svo um, að hann hafi nægtir af hreinu lofti — kyrð og næði.

*Bruni*: Ef maður brennir sig, hvort heldur í eldi, á heitu járni, eða á vatni og gufu, skal tafarlaust leggja við sárið matar-sóda og vott léreft utan yfir, eða: eggjahvítu og olive-olíu; olive- eða linseed-olíu, annað hvort einsamla eða blandaða með niður skafinni krít; eða olive- eða sweet-olíu og kalkvatn.

*Þrumuslag*: Ef elding snertir mann og hann fellur í ómegin, skal skvetta á hann köldu vatni.

*Sólstingur*: Hnigi maður í ómegin af sólarhita, skal færa hann þangað sem skuggi er, losa um föt hans, halda höfðinu hærra en bolnum, og væta svo höfuðið sífelt með ísköldu vatni.

*Eitrun*: Ef vatnsóður hundur bítur, eða eiturslanga stingur mann, skal í flýti binda fast um liminn fyrir ofan bitið, leggja svo munninn að sárinu og sjúga fast (og að sjálfsögðu láta ekkert af því fara ofan í sig), og brenna sárið svo tafarlaust með heitu járni eða hleypa inn í það brenniefni (*caustic*), eða í þriðja lagi, skera af holdinu alt í kring um sárið með beittum hníf. Jafnframt skal og gefa manninum drjúgan skamt af áfengi, brennivíni, whiskey o.s.frv. Ef eiturfluga stingur mann, skal bera á bitið útþynta *amonia*, olíu, saltvatn eða *iodine*.

*Yfirlið*: Þegar líður yfir mann, skal leggja hann á bakið og láta vera lægra undir höfðinu en öðrum líkamshlutum; skvetta köldu vatni á andlitið og láta sjúklinginn hafa nóg af hreinu lofti.

*Arða í auga*: Ef arða fer upp í auga manns, skal vefja mjúkan pappír í hólk, eins og menn gjöra þegar þeir ætla að kveikja í pappír niður um lampaglas; væta svo endann og beita síðan horninu til að

ná örðunni. Það hjálpar og að núa hitt augað,—það, sem arðan er ekki í.

*Eldur í fatnaði*: Ef eldur kviknar í fötunum, sem maður er í, er um að gera að hlaupa ekki, sízt af öllu niður stiga eða út úr húsi. Bezta ráðið er að kasta sér niður, og velta sér á gólfklæðinu, eða þá að vefja sig fljótlega í einhverjum þykkum voðum. Hvort heldur sem gjört er, ber að gæta þess, að lægra beri á höfðinu en öðrum hlutum líkamans, svo eldurinn læsi sig ekki í hárið og til þess jafnframt að verja vitin.

*Eldur í húsi*: Til að komast út úr húsi, sem er að brenna, skal maður vefja ullardúk um höfuðið og bleyta hann ,ef það er hægt, og skera göt á fyrir augun. Skríð svo eftir gólfinu, því þar er helzt loft. Umfram alt er að fara gætilega og missa ekki móðinn.

*Ef lampi springur* með steinolíu í, er þess að gæta, að bera ekki vatn í bálið, því vatnið eykur olíu-eld. Í þess stað skal bera á bálið mold, sand eða hveitimjöl, er bezt eyðir olíu-eldi, eða þá að kæfa hann með ullardúk, gólfklæði eða borðdúk.

*Köfnun í gasi*: Ef manni liggur við köfnun af að anda að sér brenni-gasi *(illuminating gas)*, er um að gjöra að komast út undir beran himin sem fyrst, eða í það herbergi, sem gott og ferskt loft er í, og leggjast þar niður, en halda samt líkamanum heitum. Tak síðan *amonia* með stuttu millibili,—20 dropa í vínglasi fullu af vatni, og að auki 2—4 dropa í vatni af uppsölumeðalinu *nux vomica*, að minsta kosti annan hvern klukkutíma, helzt einu sinni á kl.stund, þangað til 5 til 6 kl.stundir eru liðnar frá því maður andaði að sér brenni-gasinu.

*Taki maður inn eitur*, ber að senda eftir lækni, fyrst af öllu, og þar næst, að fá manninn til að selja upp, með því, að kitla kokið með fingri eða fjöður,

drekka heitt vatn, eða heitt vatn blandað með mustarði. Gott er og að taka inn *sweet oil*, eða hvítuna úr eggjum.

*Að sjá hvort maður er dáinn*: Hald spegli að vitunum. Sé hann lifandi, kemur móða á glerið. Sting prjóni í holdið. Sé hann dáinn, verður holan eftir; sé hann lifandi, fellur hún saman. Hald fingrunum saman frammi fyrir björtu ljósi og horf í gegn. Sé hann lifandi, sýnast þeir rauðir á lit; sé hann dáinn, sýnast þeir dökkir.

---

## Tómstundir.

Tómstundir eru nauðsynlegar, til að hvílast og til að leika sér, en ungmennin, sem ætla sér að komast áfram í heiminum og verða menn með mönnum, mega ekki eyða þriðjungi æskuáranna í tómstundir—til að skemta sér, eða sitja aðgerðalausir. Maðurinn er þannig gerður, að hann þarf endalausa tilbreytingu, og fáist tilbreytingin ekki öðruvísi, geta menn æfinlega fengið hana á tómstundunum. Á þeim skyldi starfsmaðurinn kappkosta að auka þekkingu sína—auðga andann, og læra eitthvað af því, sem til fagurlista telst. Bóknámsmaður skyldi á tómstundunum aftur á móti starfa eitthvað með höndunum,—læra þó ekki sé nema undirstöðu-atriðin í einhverri iðn. Það ættu allir að kappkosta að verða sem fjölhæfastir,—að geta tekið sem fylstan þátt í að vinna hvaða verk sem að höndum kemur. Með þolinmæði og með ástundun geta menn numið margt á tómstundunum, sem menn annars kynnu ekkert í.

---

# Milli himins og jarðar.

Hringmál hnattarins er að meðaltali alment kallað 25 þúsund mílur, en er virkilega, að því er nákvæmast verður reiknað, 24,858 mílur. Þvermál hans er alment kallað 8,000 mílur að meðaltali, en er virkilega 7,912 409-1,000. Um eggmyndun hnattarins má dæma af því, að til endanna (við heimsskautin) er þvermál hans rétt um 26½ mílu minna en um miðjarðarlínuna. Um miðjarðarlínuna er þvermálið 41,848,380 fet, en við heimsskautin er þvermálið 41,708,710 fet.

Fjarlægð jarðar frá sólu er á norðurhveli hnattarins mest á sumarsólstöðvum, þá 92,963,000 mílur. Á vetrarsólstöðum er jörðin næst sólunni og er þá fjarlægðin 89,897,000 mílur. Meðalfjarlægðin á árinu 91,430,000 mílur.

**Íbúatala hnattarins.**

| Heimsálfur og lönd. | Ferh. mílur að flatarmáli | ÍBÚA-TALAN. | |
|---|---|---|---|
| | | Alls. | á ferh. míllu. |
| Afríka ............ | 11,514,000 | 127,000,000 | 11.0 |
| Norður-Ameríka..... | 6,446,000 | 89,250,000 | 13.8 |
| Suður-Ameríka...... | 6,837,000 | 36,420,000 | 5.3 |
| Asía............... | 14,710,000 | 800,000,000 | 57.7 |
| Ástralía........... | 3,288,000 | 4,730,000 | 1.5 |
| Norðurálfa......... | 3,555,000 | 380,200,000 | 106.9 |
| Heimsskautalönd.... | 4,888,800 | 300,000 | 0.7 |
| Samtals ..... | 51,238,800 | 1,487,900,000 | 29.0 |

Ernest George Ravenstein, félagi hins konunglega landfræðisfélags, hefir samið fyrgreinda skýrslu, og gildir hún fyrir árið 1890.

Þýzkir fræðimenn, ritstjórar ritsins „Bevölkerung der Erde", ætlast sem fylgir á fólksfjöldann sama árið (1890): Í Evrópu 357,379,000; í Asíu

825,954,000; í Afríku 163,953,000; í Ameríku allri 121,713,000; í Ástralíu3,230,000; í Suðurhafseyjum 7,240,000; í heimsskautalöndunum 80,400. Alls 1,479,729,400.—Þurrlendi jarðarinnar meta sömu höfundar þá 52,821,684 ferhyrningsmílur að flatarmáli

Ravenstein metur hið frjósama land á hnettinum 28,269,200 ferh. mílur að flatarmáli; beitiland 13,901,000 ferh. mílur; eyðimerkur 4,180,000 ferh. míl.; og heimsskautal. 4,888,800 ferh. mílur.

Yfirborð hnattarins er metið 196,971,984 ferh. mílur að flatarmáli. Væri hnettinum skift í teninga, er hver væri 1 míla á hæð, 1 míla á lengd og 1 míla á breidd yrðu þeir teningar samtals 259,-944,035,515.

Á dögum Ágústusar Rómverja-keisara (63 f. K. til 14 e. K.) var áætlað að 54 miljónir manna væru í öllum heimi. Um 1500 árum síðar (á 15. öldinni), ætlast Mulhall á að um 50 milj. manna hafi verið í Evrópu, eða mjög lítið meira.

Að því er Murray segir, er mest dýpi Atlantshafsins 27,366 fet; Kyrrahafsins 30,000; Indíahafsins 18,582; suðurhafsins 25,200; íshafsins (nyrðra) 9,000 fet. — Atlantshafið er 24,536,000 ferh. mílur að flatarmáli; Kyrrahafið 50,309,000; Indía-hafið 17,084,000; suðuríshafið 30,592,000; norður-íshafið 4,781,000.— Hæsta fjall í heimi er Deodhunga, eitt af Himalaya-fjöllunum, 29,002 fet.

**Þjóðflokkaskifting.**

Íbúar heimsins skiftast í 7 aðal-þjóðflokka, með mismunandi hörundslit. John Bartholomew, félagi hins konunglega landsfræðisfélags Breta í Edinborg, ætlast á fjölda þessara ýmsu þjóðflokka sem fylgir:

| Þjóðflokkar. | Bólstaður. | Tala. |
|---|---|---|
| Indo-Germanar eða Aríar............ | Evrópa, Persaland, o. s. frv. ......... | 545,500,000 |
| Mongólar eða Túransmenn............ | Meiri hluti Asíu .... ...... | 630,000,000 |
| Semítar eða Kamíatar ........ ..... | Norður-Afríka og Arabia..... ..... | 65,000,000 |
| Svertingjar og Bantúar............. | Mið-Afríka .... ...... | 150,000,000 |
| Hottentottar og Skógbúar ... ...... | Suður-Afríka......... | 150,000 |
| Malayar og Polynesiar............ | Ástralíu og Polynesíueyjarnar......... | 35,000,000 |
| Ameríku-Indíánar ............ | Norður- og Suður-Ameríka...... ... | 15,000,000 |
| | Samtals.......... | 1,440,650,000 |

Yfir mannkyninu ráða 47 aðal-stjórnir, og þeim stjórnum má skifta í aðal-flokka sem fylgir:

Algjörðar einvaldsstjórnir eru í: Kína, Morocco., Persa-ríki, Rússlandi, Síam, Tyrklandi, Abyssiníu, Afganistan og Kóreu.

Konungsstjórnir með takmörkuðu veldi eru í: Austurríki og Ungverjalandi, Belgíu, Breta veldi, Danmörku, Þýzkalandi, Grikklandi, Ítalíu, Japan, Hollandi, Portúgal, Rúmeníu, Serbíu, Svíþjóð og Noregi, Spáni og Montenegro.

Lýðstjórnir eru í: Argentínu, Bolivíu, Brazilíu, Chili, Columbía, Costa Rica, Equator, Frakklandi, Guatemala, Hayti, Honduras, Mexico, Nicaragua, Paraguay, Perú, Salvador, Svisslandi, Bandaríkjum Vesturheims, Uruguay, Venezuela, Cuba, Dominican.

Auk þessara stjórnflokka eru nokkur smáhéruð með fullu sjálfsforræði og í miðhluta Afríku mörg stór svæði ónákvæmlega takmörkuð, þar sem er algjört einveldi.

Meðal-aldur mannsins er 33 ár. Fjórði hver maður deyr innan 6 ára aldurs og helmingur manna deyr áður en þeir ná 16 ára aldri. Að eins einn maður af hverjum hundrað nær 65 ára aldri. Það er áætlað á mínútu hverri deyi 67 manns, á sólarhringnum 97,790 og á árshringnum 35,639,-835. Á mínútu hverri er ætlast á að fæðist 70 börn, á sólarhringnum 100,800, á árshringnum 36,-792,000. Eftir þessum reikningi fjölgar fólkið í heiminum svo nemur 1,152,165 á ári hverju.

**Tungumál Evrópu.**

Mulhall ætlast á, að 401¾ milj. manna tali 7 hin stærstu (útbreiddustu) tungumál Evrópu, árið 1890. Þar af er hin enska tunga fremst; ætlast hann á að hana tali þá 111 milj. manna. Aðrir fræðimenn segja að árið 1895 tali meir en 124 milj. manna enska tungu og fylgir sú athugasemd, að hin enska tunga sé óðum að verða tungumál allra heldri manna í Evrópu.

---

## Ýmislegur mælikvarði.

---

12 hlutir gera 1 dúsín
12 dúsín gera 1 gross
12 gross gera 1 stórt-gross.
20 hlutir gera 1 score.
196 pund af hveitimjöli gera 1 tunnu.
200 pund af nauta- eða svínakjöti gera 1 tunnu.
135 pund af kartöflum eða eplum gera 1 tunnu.
280 pund af salti gera 1 tunnu.
400 pund af sírópi gera 1 tunnu.
200 pund af sykri gera 1 tunnu.
240 pund af kalki (lime) gera 1 tunnu.

**Járnbrautar-vagnhlass rúmar af**

Salti—80 til 100 tunnur.
Trjávið—8,000 til 13,000 fet.
Bankbyggi—417 til 833 bushel.
Hveiti—333 til 666 bushel.
Maís—357 til 714 bushel.
Kartöflum—333 til 666 bushel.
Höfrum—625 til 1,250 bushel.
Rúg—357 til 714 bushl.
Nautgripum—16 til 24 höfuð.
Svínum—40 til 60 höfuð.
Sauðfé—80 til 100 höfuð.
Heyi—10 tons.
Kolum—12 til 20 tons.
Steini—2 cord.
Sandi—7 tenings yards.

---

## Kassamál.

Það er auðgert fyrir hvern bónda að búa sér til mæliker úr fjölum, ef hann veit aðferðina. Eftirfylgjandi greinir sýna mæliker á ýmsri stærð:

Kassi, sem er 16 þuml. breiður, 16¾ þuml. langur og 8 þuml. djúpur, tekur 1 bushel, mæld, af kornmat. Rúmmál þess kassa er 2,150 og 4-10. tenings-þumlungs.

Kassi 12x11¼ þuml. að stærð og 8 þuml. djúpur, tekur tekur hálft bush. af kornmat. Rúmmál hans þá 1,075.2 ten.-þuml.

Kassi 8¼x8 þuml. að stærð og 8 þuml. djúpur, tekur fjórðung úr busheli eða „peck."

Kassi 8¼x8 þuml. að stærð og 4 þuml. djúpur, tekur áttunda úr busheli, eða sem það er alment kallað,—eina gallónu af korn-mæli.

Aðal-reglan við að gjöra sér mæliker fyrir kornmat er að gæta þess, að mælt (en ekki vegið) kornmatar-bushel er að rúmmáli 1,150¼ teningsfet.

Þegar þessa er gætt, er vandalaust að reikna lengd fjalanna, sem þurfa í kassann, með því eða því lagi, sem menn vilja hafa á honum. Þess má og hér geta, að með tilgreindri ten. þuml. tölu er átt við slétt-mælt bushel,. Kúf-mælt bush. er að rúmmáli 2,750 ten. þumlungar.

Vagn-kassi (*wagon box*) 10x3 fet að stærð tekur tvö kornmatar bushel á hverjum þumlungi dýpisins. Þ. e. þumlungsþykt lag á botninum, jafnt út í öll horn, er tvö bushhel. Mæli menn dýpi kassans nákvæmlega, geta menn því fljótlega séð hvað mörg bushel af hveiti hann tekur.

---

## Girðingavír.

Af girðingavír með göddum (*barbed wire*) fara að meðaltali 16½ fet í pundið. Ætli maður að hringirða eina ekru af landi með gaddavír og vilji hafa þrjár raðir af vír, þarf maður af vírnum 152 pund. Ætli maður að hringirða eina „section", eða ferhyrningsmílu af landi, á sama hátt, þarf til þess 3,840 pund af gaddavír.

---

## Mál á heyi.

Hér um bil 500 teningsfet af vel signu heyi, og hér um bil 700 ten. fet af nýslegnu heyi, gera ton. Tíu teningsyards af heyi í slæjunni gera 1 ton. Ef heyið er tekið úr gömlum stakk, þurfa 8 eða 9 tenings yards í tonnið. En 11 til 12 tenings yards af vel þurrum smára, gera ton.

---

## Haust og vetrar-ís.

2 þumlunga þykkur ís heldur gangandi manni.

4 þuml. þykkur ís heldur hesti og manni.

6 þuml. þykkur ís heldur tveimur hestum og léttu æki.

8 þuml. þykkur ís heldur tveimur hestum með þungu æki.

10 þuml. þykkur ís þolir þrýsting, er nemur 1,000 pundum á ferhyrningsfetið í ísnum.

Um ís á vordegi er alt öðru máli að gegna.

---

## Hvað litirnir tákna.

*Hvítt* táknar ljós, sakleysi, gleði, líf, trú og kristilegan hreinleik, hjá dómara réttdæmi, hjá sjúkum auðmýkt, hjá konum skírlífi.

*Rautt* táknar eld, kærleik guðs og kóngstign. Hvítar og rauðar rósir tákna elsku og hyggindi. Blóðrautt minnir á starf hjartans og merkir því elsku.—Í illri merkingu er rautt látið tákna helvízka elsku á hinu illa, m. fl.

*Blátt* táknar himininn eða hvelfinguna, sannleik af himneskum uppruna, stöðuglyndi og trúmensku.

*Gult*—gull—táknar sólina, miskunn guðs, gifting og trygð.—Í illri merking táknar gulur litur kviklyndi, afbrýðissemi, prettvísi.

*Grænt* er litur vorsins, vonarinnar, einkum upprisu-vonar og sigurs.

*Fjólublátt* táknar ást og sannleik, eða ástríðu og kvöl. Purpuralitur og skarlat merkja hið góða og sanna af himneskum uppruna.

*Svart* táknar örvænting, myrkur, heimselsku, vonzku, sorg, eyðilegging, dauða.

---

## Hjónabandsafmæli

eru haldin með þessum einkunnum, eftir

| | |
|---|---|
| 1. árið bómull. | 7. árið ull. |
| 2. árið pappír | 10. árið blikk. |
| 3. árið leður. | 12. árið silki. |
| 5. árið viður. | 15. árið krystall. |

20. árið postulín.
25. árið silfur.
30. árið perlur.
40. árið gimsteinar.
50. árið gull.
75. árið demantar.

---

## Mæling.

7.92 lengdar-þumlungar heita hjá landmælingamönnum 1 hlekkur (link); 100 hlekkir heita 1 keðja (chain), eða 4 rods, eða pole (keðja er 66 fet); 80 keðjur er 1 míla.

Vegg- eða þak-mál hjá byggingameisturum er, að vegg- eða þak-partur, sem er 10x10 fet, eða -100 ferh. fet, heitir 1 ferhyrningur—1 square.

---

## Ferðhraði.

| | *Mílur á kl.stund.* | *Fet á. kl.stund.* |
|---|---|---|
| Maður gengur .... .... .... .... | 3 | 4 |
| Straumlítil á rennur .... ........ | 3 | 4 |
| Hestur brokkar ..... ...... .... | 7 | 10 |
| Straumhörð á rennur .... ...... | 7 | 10 |
| Hægur vindur fer ....... ...... | 7 | 10 |
| Seglskip í góðum byr ....... .. .. | 10 | 14 |
| Gufuskip .... ...... ...... .... | 18 | 26 |
| Hestur á hörðum spretti .. ...... | 20 | 29 |
| Dúfa flýgur .... ........... .... | 40 | 58 |
| Fellibylur fer.. .... .... ...... | 80 | 117 |
| Æðarfugl flýgur .... .... .. .. | 90 | 131 |
| Haukur (valur) flýgur .......... | 150 | 218 |
| Hljóð berst ..... ...... ...... | 743 | 1142 |
| Riffilkúla berst ..... ...... .... | 1000 | 1466 |

Ljós berst 192,000 mílur á sekúndu.
Rafmagn berst 288,000 mílur á sekúndu.

---

**Verðmæti útlendra peninga.**
**Í Kanada og Bandaríkja peningum.**

| LÖND. | Lögeyrir. | Peninga heiti | Dollars. |
|---|---|---|---|
| Argentina.......... | Gull .... | Peso .......... | $0.96.5 |
| Austurríki.......... | Gull .... | Króna ...... ... | .20.3 |
| Bretland hið mikla.. | Gull .... | Pund sterling .. | 4.86.6½ |
| Belgía........... .. | Gull .... | Franki ....... | .19.3 |
| Brasilía... ........ | Gull .... | Milreis ...... .. | .54,6 |
| Chili.............. | Gull .... | Peso .......... | .36.5 |
| Columbia ....... .. | Silfur.... | Peso ......... . | .40.8 |
| Cuba............... | Gull .... | Peso .......... | .92,6 |
| Danmörk og Ísland.. | Gull .... | Króna ........ | .26,8 |
| Ecuador ........... | Silfur.... | Sucre.......... | .48.7 |
| Egiptaland ....... .. | Gull .... | Pund (100pjastr) | 4.94.3 |
| Finnland........... | Gull .... | Mark. ........ | .19,3 |
| Frakkland.......... | Gull .... | Franki ........ | .19,3 |
| Grikkland .......... | Gull .... | Drakma........ | .19,3 |
| Holland ............ | Gull .... | Florin ........ | .40,2 |
| Hayti. ............ | Gull .... | Gourde........ | .96,5 |
| Indland ...... ..... | Silfur.... | Rupee ......... | .52,4 |
| Italía ... ........ .. | Gull .... | Lira ........... | .19,3 |
| Japan ............. | Gull.... | Yen.... ..... | .49.8 |
| Kína...... ....... | Silfur.... | Tael { Shanghai | .63.9 |
| | | Tael { Tientsin | .62.2 |
| | | Tael { Canton | ,65.7 |
| Líbería...... ..... | Gull ..... | Dollar ......... | 1.00 |
| Mið-Ameríkuríkin... | Silfur.... | Peso .......... | .61,6 |
| Mexico ..... ...... | Silfur.... | Dollar . ....... | .66,9 |
| Nýfundnaland ...... | Gull ..... | Dollar ......... | 1.01,4 |
| Perú............... | Silfur.... | Sol .......... . | .44.3 |
| Portúgal .......... | Gull ..... | Milreis ........ | 1.08,0 |
| Rússland . ..... . | Gull..... | Rúbla ......... | ,51.5 |
| Spánn............. | Gull .... | Peseta ........ | .19,3 |
| Svíþjóð og Norvegur | Gull ..... | Króna ......... | .26,8 |
| Svissland ....... ... | Gull .... | Franki ....... .. | .19,3 |
| Tripoli .... . ..... | Silfur.... | Mahbub. ..... | .44.2 |
| Tyrkland ....... ... | Gull ..... | Piastr ..... ... | .04,4 |
| Venezuela. ..... ... | Gull .... | Bolivar ........ | ,19,3 |
| Þýzkaland.......... | Gull.. .. | Mark.......... | .23.8 |

# HITAMÆLIRINN.

Eftirfylgjandi skýrsla sýnir mismunandi stig hita og kulda á mælirunum þremur: Réaumur, Centigrade og Fahrenheit.

| Réaumur | Centigrade | Fahrenheit | |
|---|---|---|---|
| 80° | 100° | 212° | Vatn sýður niður við sjávarmál. |
| 76 | 95 | 203 | |
| 72 | 90 | 194 | |
| 68 | 85 | 185 | |
| 63.1 | 78.9 | 174 | |
| 60 | 75 | 167 | Vínandi sýður. |
| 56 | 70 | 158 | |
| 52 | 65 | 149 | |
| 48 | 60 | 140 | |
| 44 | 55 | 131 | |
| 42.2 | 52.8 | 127 | Tólg bráðnar. |
| 40 | 50 | 122 | |
| 36 | 45 | 113 | |
| 33.8 | 42.2 | 108 | |
| 32 | 40 | 104 | |
| 29.3 | 36.7 | 98 | Blóðhiti |
| 28 | 35 | 95 | |
| 25.8 | 32.2 | 90 | |
| 24 | 30 | 86 | |
| 21.3 | 26.7 | 80 | |
| 20 | 25 | 77 | |
| 16 | 20 | 68 | |
| 12.4 | 15.3 | 60 | Tempraður hiti. |
| 10.2 | 12.8 | 55 | |
| 8 | 10 | 50 | |
| 5.8 | 7.2 | 45 | |
| 4 | 5 | 41 | |
| 1.3 | 1.7 | 35 | |
| 0 | 0 | 32 | Vatn frýs. |
| 0.9 | — 1.1 | 30 | |
| — 4 | — 5 | 23 | |
| — 5.3 | — 6.7 | 20 | |
| — 8 | —10 | 14 | |
| — 9.8 | —12.2 | 10 | |
| —12 | —15 | 5 | |
| —14.2 | —17.8 | 0 | Zero á Fahrenheit |
| —16 | —20 | — 4 | |
| —20 | —25 | —13 | |
| —24 | —30 | —22 | |
| —28 | —35 | —31 | |
| —32 | —40 | —40 | |

